# Stutt Ágrip

af

# Bibliu Frásøgum

handa

# Unglíngum.



Skrásett af
Sveini Borchmanni Hersleb,
Lærimeistara í Gudfrædi vid Háskólann
í Kristjaníu í Norvegi.

Snúid á Íslendsku.

Videyar Klaustri, 1828.
Prentad á kostnad Íslands konúngl. Lands-uppfrædíngar Stiptunar,
af Fakt. og Bókþryckjara G. Schagfiord.



# Til Lesarans.

Ad vísu hefi eg siálfkrafa og friviljuglega á nærstlidnu Midsumri til Stiptsyfirvaldanna afsalad mér alla umsjón og stjórn þess hérverandi Prentverks, hveria eg hefi kauplaust umannast, sem þess frá uppháfi stjórni Directeur frá 19da Júlii 1794 nú á 34da ár, og uppsagt því lengri veru á lód minni, vegna ómannlegs vanþacklætis illgiarnra vid umsjón mína, eptir ætandi stórkostnad, af egin efnum minum varinn til þess best møgulega gángs i mørg ár, eptir tímanna þúngbæru biltingum, án allra opinberra þýngsla eda tolla til hans frama, en þar Stiptid saun sér þá óvidkomandi øll afskipti af Prentverksins rádstøfun og gángi framvegis, neyddist eg til ad ítreka sømu frá- og upp-søgn i fyrra sumar til ens konúnglega danska Cancelliis, med fyrirheiti, naudsynarinnar vegna, um mitt framhald sømu umsjónar þess og stjórnar, uns konúngleg Hátign ellegar Cancelliid adra rádstøfun um þad giørdi. Svo nú Prentverkid ecki hvíldist ydjulaust á medan, eru nú Uppløg Gudsorædi-bóka sídan prentud, en þared af øllum til Gudrækniñar æfinga i Kirkjum og heimahúsum naudsynlegum bókum nú er álitlegur fordi óseldur fyrir hendi, fannst mér

únglíngum og öllum almúga vel mega henta ad edlast stutt ágrip af þeim markverdustu Biblíu-Sögum, sem ecki næmi miklu verdi; þeim fyrri einkum til ad æfa sig vid í lestri og ásamt öllum almúga, þá betur sæmandi, ad frædast um Biblíunnar merkilegasta innihald og tilburdi, enn um fáfengileg efni Trölla- og lygasaga, til hverra miklu dýrri kaupa almenníngi þó nú er bodid ad skuldbinda sig.

Til hins áformsins fanst mér vel hæfa ad velja þess lærda Prófessors í Gudfrædi vid Fridriks Konúngs Háskóla í Kristjaníu Stad í Norvegi, Herslebs, árid 1824 fyrir lægri flocka lærdra Skóla og fyrir Borgara og Almúga Skóla útgéfna stutta Rit: Kort Udsigt over Bibelhistorien, Kiøbenh. 1824, sídan optar upplagt, hvers kénnslu-máti vyrdist Börnum og einföldum yfrid skiljanlegur og audveldur. Þó ecki yfirgrípi þad, sem eptir siærd þess ecki er von, allar Biblíu-sögurnar, né heldur ítarlega útlisti þær, einkum G. Testamentisins, heldur þad samt þær markverdustu og vída hvar stuttar hugvekjur af þeim útdregnar til ad varast lesti, en rækja dygd og vyrda guddómlega lærdóma, sem ber.

Gáfadur madur, hverr þó óskar nafn sitt hér dulid, tókst, ad bón minni, útleggíngu Övers þessa á hendur, í Høfundsins sama audvelda stíls formi, eins og þad nú kémur prentad fyrir sjónir, eptir litilvæga lagfæríngu mína á fáeinum stødum. Videyar Kl. 5ta Apr. 1828.

M. Stephensen.

# Innihald.

---

Fráſögur
útdregnar af Nýa Teſtamentinu.



# Inngángur.

Á medal allra lifandi skepna, sem vér
[þ]ekkjum á jördunni, er maðurinn hin
[á]gætlegasta, af því hann er gæddur skyn-
[se]mi og fríum vilja. Dýrin hafa ein-
[ú]ngis náttúrlegar tilhnegíngar til að eta,
[dr]ekka, sofa og s. frv.; þau fremja þess
[ve]gna ecki annað enn þessar fýsnir knýja
[þa]u til. Vér mennirnir höfum bædi
[þe]ssar dýralegu tilhnegíngar og ásamt skyn-
[se]mi til að bera, sem kénnir oss að gjöra
[gr]einarmun á réttu og raungu. Þeg-
[ar] glepsandi dýr drepur mann, fylgir það
[ei]ngis náttúrufari sínu að leita sér fæðu
[e]ðar verja líf sitt, verdur því ecki sagt,
[að] dýrið syndgað hafi, fyrst því var ecki

skynsemi lént og þeckti ecki hvað synd er; en hafi madurinn þar á móti gédþeckni á að misþyrma dýrunum, ellegar drepi einhvern af medbrædrum sínum, segir skynsemin honum, að hann hafi breytt ránglega.

Svo að vér því heldur muna skyldum til að gjøra hvað skynsemin býdur oss, hofum vér einnig ødlast Samvitsku. Þannig nefnist sú tilfinníng hjá oss, að þegar vér, t. d., breytt hofum vel og réttvíslega, erum vér ánægdir, rósamir og gladværir; en — hefum vér eitthvað íllt adhafst, þá erum vér óánægdir, órólegir, sneipu- og ótta-fullir. Hinn ráðvandi hefir því góða Samvitsku; en sá vondi þar á móti illa samvitsku. (t. d. *Sókrates, Alexander, Heródes, Cromwel.*)

Madurinn hefir samt fríann vilja og fær þess vegna adhafst það, sem skynsemin metur rétt, ellegar breytt þvert á móti. Þjófnum væri hægt að fordast

skuld og þeim hyskna að læra það honum ber; væri hann ecki letíngi, veitti honum létt að vera ydnum, ef hann svo vildi. Allteins gæti ydjumadurinn latur verið; en það vill hann ecki reynast, afþví hann veit það er bædi rángt og líka smán.

Sá, sem nú ecki vill líkjast skynlausum dýrum, leitast við að ödlast skíra og vissa þeckíngu um, hvað rétt er edur rángt; hann vill einnig fá að vita: hvernig allt hefir verið á sig komið ádurenn hann varð til og hvadan allir hlutir í fyrstu eru upprunnir.

Ef vér brúkum athygli vora, fáum vér með vissu sannfærst um: að frá eilífð hlýtur að hafa tilverið skynsöm Vera, sem hefir skapað oss og alla hluti, viðheldur oss og forsorgar; því hverki sjálfir vér né aðrir gátu það, en hann, sem gaf oss skynsemi, gétur ecki

sjálfann skort hana. Enn framar fáum vér ályktad: ad fyrst vereldin er svo geysi stór og sá sképnu-fjøldi, sem úir og krúir í henni ótelulegur, hlýtur sá ad vera almáttugur, sem allt þetta skóp og loksins, þar ellu er svo vísdómslega hagad og allt lagad oss til heilla, verdur Skaparinn ad vera bædi vísdómsfullur og gódur. Lítid mundi oss ella stoda, ad vera skynsemi gjæddir, værum vér ecki sannfærdir um, ad til væri almáttug, heiløg og vísdómsfull Vera, sem fødurlega stjórnar kjørum vorum og vidheldur oss, eins þá, þegar daudinn endar vora hérvist á jørdunni.

En — þó vér nú þannig, med brúkun skynsemi vorrar, vissulega komist gætum til þeckíngar um þann einasta sanna Gud og hversu vér egum ad hegda oss hér í heimi, hafa þó menninir ætíd og allstadar, verid framar hneigdir til illenn gódsog Veraldar-sagan sýnir, oss

á hverju bladi, hversu mikid íllt hefir í lendunum framfarid. Þjódirnar gleymdu líka, ad til væri almáttugur Gud, sem ecki er líkhamleg Vera, heldur hinn fullkomnasti Andi. Þeir tilbádu stjørnur, fljót, dýr; já, jafnvel Bílæti úr trje og steini, sem þær sjálfar smídad høfdu og kølludu þau Gudi. (t: d: Godin, Chaldæar, Egyptskir, Rómverjar, Grickjar.)

Þegar menn breyttu þannig, leiddi þar af þeirra ófarsæld, því hverr, sem brýtur Guds bodord verdur sakfallinn, þar hann gjørdi sjálfann sig óverdugann velþócknunar ens Heilaga. Þó — miskunadi Gud sig yfir mennina og annadist um ad vér vita fengjum hverju vér trúa og hvad vér gjera egum, og ad vér vænta megum hans fyrirgéfníngar vorra afbrota, þegar vér vidurkénnum hans nád og ástundum ad breyta eptir hans vilja.

Hverſu fødurlega Gud hefir annaſt mennina og hvad hann vill ad vér ſkulum trúa og gjøra, þarum hefir hann ſjálfur látid oſs ſrada í bók þeirri, ſem vér nefnum Biblíu og ſem vér því køllum Guds ord eda heilaga Ritníngu. Biblían inniheldur fleiri bækur, ſkrifadadar af ýmſum mønnum á ýmislegum tímum. Þær, ſem ritadar eru fyrir Kriſts Fædíngu, kallaſt allar til ſamans Gamla Teſtamentid, hinar þarámóti, ſem ritadar eru eptir Kriſts burd, nefnum vér hid Nýa Teſtamenti.

---



# Frásøgur
útdregnar af
# Gamla Testamentinu.

## I. Skøpunar-verkid.

Í upphafi skapadi Gud himin og jörd á sex døgum. Á enum fyrsta degi skapadi Gud ljósid. Á ødrum deginum lét Gud himininn med hans skýum hvelfa sér kríngum jørdina. Hinn þridja dag skildi Gud vatnid frá þurru landi og lét þad safnast í hof og fljót og stødu-votn og læki; sídan lét Gud gros og jurtir og tré vaxa upp af jørdunni og bera ávexti hvert eptir sínu edli. Á fjórda deginum skapadi Gud sólu og túngl og stjørnur; sólin átti ad lýsa um daga, verma jørdina og gjøra hana

frjóffama; en túnglid og stjørnurnar ad lýsa á nóttum og leidbeina ferdamönnum um gégnum eydimerkur og reginhof. Eptir himinkroppanna gángi, var tímanum skipt í Ár, mánudi og daga; en þegar náttúrunnar þogula mirkur hvílir yfir jordunni, ljóma stjørnurnar á himninum, til ad minna oss á Gud og eilífdina.

Þegar nú jordin var þannig tilreidd lifandi skepnum til nota, skapadi sá alvísi og gódi Gud á fimta degi fiskana í sjónum og fuglana, sem um loptid fljúga; en á sjötta deginum øll land-dýr, orma og skorqvikindi. Þegar Gud þannig skapad hafdi dýrin og blessad þau, þad er: géfid þeim allt þad góda, sem þau, eptir náttúru-edli þeirra, gátu adnotid, skóp Gud sama daginn einnig þann fyrsta mann, sem nefndist Adam. Manns þessa líkhami var myndadur úr jordu, en hans ódaudlega sála kom frá Gudi og því er sagt: ad vér séum skapadir eptir Guds mynd, af því, eins og hann er heilagur, sem skóp oss, svo áttum vér og ad

vera heilagir í öllum vorum þaunkum og athöfnum.

Þegar Gud hafdi skapad Adam, setti hann hann í Aldingard nockurn, sem hét Eden, það er: hinn yndislegi, til ad yrkja og vakta hann. Af ávexti hans átti hann uppheldi ad hafa. En — þar Adam var þar einsamall og eckért af dýrunum lagad honum til skémtunar, skapadi Gud þá fyrstu konu, hverrar nafn var Eva; hún vard húsfreya hans og til þeirra ega allar menneskjur á jördu ættir sínar ad telja, eins og börn af einni og sömu Ættqvísl, hverjum jafnan ber ad elska hvert annad. Gud leit þá yfir allt, sem hann hafdi skapad, og sjá! þad var alltsaman harla gott. Þá hvíldist Gud á sjöunda deginum, þad er: hann hætti ad skapa.

Eins og Ritníngin hér kénnir oss, ad Gud hafi skapad alla hluti, segir hún oss einnig, ad Gud sé sá, sem vidheldur öllum hlutum; Gud er sá, sem géfur oss regn og frjóssamar Arstídir. Gud lætur grasid vaxa fénadinum til fódurs og ávexti mönnunum til fædu.

Enginn titlíngur fellur á jordu án þess Gud viti af, hann prýdir jurtirnar á morkinni og fædir fuglana undir himninum, sem þó hverki sá né uppskéra eda safna í fordabúr; en einkum ber Gud umhyggju fyrir monnunum, eins og fadir fyrir bornum sínum.

## 2. Syndafallid.

Gud hafdi sett vora fyrstu Foreldra í Edens aldingard og leyst þeim ad eta af ávexti trjánna í honum. Einúngis eitt tré var þar, hvers ávexti Gud bannadi þeim ad snerta, þared hlýdni þeirra hlaut ad reynast; þetta tré kalladist því Skilníngs-tré góds og ílls; Ad hlýda Guds vilja, er gott, en brjóta móti honum er vondt. Eva vard fyrri til ad láta sig tæla til ad eta af þessa trés ávexti, af því henni leitst hann svo girnilegur og af því hennar drambsemi héldt, ad æti hún hann, mundi hún verda jafnvitur Gudi. Sídan gaf hún manni sínum af þessum ávexti; en undireins og þau bædi brotid hofdu þetta Guds bodord, urdu þau í fyrsta sinni

flegin af ótta og blygdun. Þau reyndu til ad fela sig á milli aldingardsi trjánna fyrir Þeim allstadar nálæga, en til einkis. Þau hofdu ordid Gudi óhlýdin og Því var einnig Þeirra luckusæla og saklausa ástandi lokid. Þau urdu ad yfirgéfa Edens Aldingard; med mædu vard madurinn úr Því og med síns andlitis sveita ad abla sér brauds, unts líkhami hans vid daudann verdur aptur ad jordu, af hverri hann tekinn v.r, en sálin fer til Guds og medtekur umbun eda straff eptir hennar athofnum. Þannig kom syndin inn í heiminn, en Þared vorir fyrstu Foreldrar syndgudu, finnast einnig hjá ollum Þeirra afkomendum syndsamlegar tilhneíngar og medfæddur breiskleiki, svo enginn gétur ordid svo fullkominn, sem honum vera bæri.

## 3. Kain og Abel.

Eptir Þad Adam og Eva vóru útrekin af Edens Aldingardi, gátu Þau tvo sonu, af hverjum sá eldri hét Kain en sá yngri Abel. Abel lagdi fyrir sig Fjárhirdingu, en Kain Jardar-rækt.

Einhverju sinni vildu þeir brædur færa Gudi fórnir. — Vér finnum, nefnil: ad nærstum því allar þjódir í fornöld og ymsar enn í dag, tídkudu ad votta Gudi vyrdíngu þeirra og þacklátsemi med fórnum, sem venjulegast vóru þari fólgnar: ad þær slátrudu dýrum og brenndu þau-upp, ellegar reykelsi eda korn og s. frv., til merkis um, ad þegar menn gætu, vildu þeir med ánægju géfa Gudi hid besta, sem þeir áttu. — Abel offradi Gudi frumburdi hjardar sinnar og Kain jardar ávexti; en einúngis þess frómlynda Abels offur, þócknadist þeim Heilaga. Kain vard yfir því ofunds sjúkur, daufur í bragdi og nidurlútur. Ad sönnu gaf Gud honum þá advorun: ad sá, sem gódur væri, þyrsti ecki ad skammast sín upp ad líta, en engu ad sídur drap þó Kain bródur sinn saklausann, er þeir vóru saman úti á vídavángi.

Kain reyndi forgéfins ad dylja mordid fyrir alvísum Gudi, vard hann því ad fara landflótta frá augliti foreldra sinna; er hann því óttalegt dæmi uppá til hvers ofund og hatur fær leidt

mennina, þegar þeir ecki gégna Guds roddu, sem til þeirra talar í samvitskunni.

## 4. Syndaflódid.

Eptir Abels dráp, fæddi Eva son, sem nefndist Seth og er af honum kominn fjölmennur ættleggur, sem upphaflega dýrkadi sannann Gud, en vard sídar íllur og ógudlegur. Af Kain æxluduft margar ættqvíslir, sem urdu nafnfrægar af uppáfinníngum ýmsra lista til lífsins þarfa; en þær einkum vyrdast verid hafa drambsamar og vondar. Um lánga tíma umbar Gud íllsku þeirra, því hann er þolinmódur og miskunsamur og unnir vondum fresis til yfirbótar; en um sídir lét Gud mikid vatnsflód dreckja því gjörvalla ógudlega kyni, til þess annad nýtt og betra komid gæti í hins stad og dádríkt til ens góda. Einúngis einn madur, ad nafni Nói, sem var af Seths ættqvísl, ásamt húsfreyu sinni, þremur sonum, Sem, Kam og Japhet og þeirra konum frelsuduft frá vatnsflódinu á skipi nockru, sem sídan hefir kallad

verid Örkin. Á þessu sama skipi, bjorguðust einnig þau dýr, sem ecki gátu í vatni lifad, er nærstum í heilt ár huldi jordina. Þanninn vard Nói sá annar Forfadir mannkynsins.

## 5. Abraham.

Þegar mannkyninu eptir Syndaflódid var aptur fjolgad á jordunni, urdu hvad af hverju ymsar ættir og þeirra afkomendur ad ýmislegum þjódum, sem bjuggu allt um kríng í londunum. En med framtíd gleymdist meir og meir sonn Guds þecking og medal allra þjóda drottnadi margvísleg afgudadýrkan. Samt sem ádur bjó í Chaldæalandi, hér um bil 2000 árum fyrir Krists burd, rádvandur madur, sem Abraham hét, er dýrkadi sannann Gud. Þessi Abraham var kominn af Seth, en fadir hans hét Tharaeh. Eptir skipun Guds flutti Abraham á burt frá Chaldæu med húsfreyu sinni Sara og bródursyni sínum Loth, til lands þess, er nefndist Kanaan, hvar Gud hafdi ásquardad ad hans nidjar búa skyldu.

Gud blessadi líka Abraham, svo hann vard audugur maktar-madur, átti hjardir miklar og hélt margt fólk; lifdi hann eins og umferdar-hirdara sídur er til, sem búa í tjöldum, en flytja hjardir sínar úr einum stad í annann og er af þesshátiar fólki fjöldi í Austurlöndum, sem nefnast Nómadar.

Af því Loth líka átti miklar hjardir, kom miskiíd upp á milli hans og Abrahams hirdara. Hinn fridsami Abraham sagdi þessvegna vid bródurson sinn Loth: Kjæri! látum enga tvídrægni vera í milli ockar ellegar smala vorra, því vid erum brædur. Er ecki land nóg handa þér? en skilja skulum vid; viljir þú fara til vinstri handar, þá fer eg til hægri og viljir þú til hægri, vil eg halda til vinstri. Vegna gróda vonar valdi Loth sér bústad í frjófsömu plátsi nálægt Sódóma; en ábatinn, sem hann sókti eptir, vard honum ysrid dýrkeyptur; því hefdi Abraham ecki verid eins vaskur og hann edallundadur var, mundi Loth lakari afdrif hafa hafa. Því Konúngurinn í Sódóma var skattskyldur ödrum Fursta, en fjell

frá honum að nockurra' ára fresti; át af því hófst strið milli þeirra af hverju hann beið ósigur og varð tekinn til fánga, en óvinirnir rændu og rupludu og færdu allt á burt. Allteins varð Loth með öllum eignum sínum herteKinn og gjörður að þræli; en er Abraham varð þess vísari, vopnaði hann menn sína og með fleirum vinum sínum elti óvinina, þess óvara, náði þeim um síðir, barðist við þá og sigraði, en frelsaði ecki einúngis Loth, heldur og alla hans meðfánga, ásamt eigum þeirra. Að sonnu bauð Sódóma Konúngur Abrahami allt það góts, er hann bjargaði, en þessi edallundaði maður vildi eckert af því þyggja.

Sódóma borgarmenn vóru mjög svo ógudleair, en ógæfan, sem þeir freistudu, fick þó ecki leitt þá til apturhvarfs frá skammarlegum lóstum. Sá ráðvandi og mannkjærlegi Abraham bað Gud fyrir þessa ógæfumenn; en Gud vildi ecki lengur hlífa þessari lastafullu bygð: Sódóma og nábúa-staðurinn Gomorra urðu því að svo nefndu Dauða-hafi og undireins rigndi kkást

eldi og brennisteini nidur úr loptinu. Einúngis Loth og dætur hans tvær, frelsudust med adstod Guds, frá þeirri eydileggíngu.

Gud hafdi heitid Abrahami; ad af hans nidja skyldu allar þjódir á jördunni blessun hljóta, þad er: verda lukkusælar; en jafnvel þó Abraham og Sara kona hans væru þá farin ad eldast og ættu þá enganu son, var hann þó fulltrúa um, ad Gud mundi efna þad hann lofad hefdi: þarad kom og ad Sara fæddi son, sem nefndur var Isak og þessi vard nú foreldranna einka von. Abrahams traust og hlýdni urdu því sett í einhverja hordustu reynslu, þegar Gud baud honum ad offra sér þessum einka-syni. Med sorgfullu hjarta hlýddi Abraham því, er hann áleit vilja Guds og fór med sinn únga son á offursplátsid. Hér er vidur og eldur, en hvar er offur-dýrid? spurdi drengurinn í granleysi. Gud mun sjá fyrir því, svaradi Abraham med hrærdu hjarta og bjó sig til ad framqvæma þetta þúngbæra offur-verk. En — traust-gott og hlýdid hjarta, sem er fúst til ad láta

allt af hendi, þegar Gud býdur svo, er honum þócknanlegt; þar á móti gat ecki mann-offur ordid þócknanlegt þeim Heilaga. Þeßvegna advaradi hann Abraham, svo hann, í stad sonar síns, fórnfærdi Gudi hrúti einum, sem á þessu eydiplátsi vid offurs-stadinn hafdi fest horn sín í vidar-runna, svo Abraham snéri gladvær heim aptur, en Guds adstod launadi hlýdni hans og rádvendni.

## 6. Isak.

Þegar Isak var vel á legg kominn, deydi módur hans Sara; Abraham rédi því af, ad senda einn af þjónum sínum, sem hét Elíeser, ad leita Isaki konfángs í Mesópótamíu, hvar brédir Abrahams hafdi sér bólfestu tekid; því þeir, sem bjuggu í Kanaanslandi, vóru lastafullir og afgudadýrkarar. Elíeser fór af stad, med 10 Ulfalda og mikla fylgd og hafdi med sér allsháttar gótzs Herra síns. En er hann kom þángad, sem brédir Abrahams bjó, batt hann Ulfalda sína hjá brunni nockrum nálægt bænum um qvöldid, um þær munds-

ir, sem konur þadan vóru-vanar ad sækja sér neytslu-vatn. Sá gudhræddi og trúi þjón gjordi þá bæn sína til Guds og sagdi: Jehóva! þú, sem ert Gud míns Herra, Abrahams! veit í dag miskun þína mínum Herra, Abrahami! hér stend eg nú vid brunn þenna, en brádum koma stúlkurnar úr bænum til ad sækja vatn. Géf mér þessvegna eitt-hvert tekn, af hverju eg fái þeckt, hverja stúlku þú, af miskun þinni, hefir útvalid þínum þjéni Isak! Eg vil bidja einhverja þeirra um vatn ad drecka; láttu hana þá verda þad, sem svarar mér: dreck þú! líka skal eg géfa Ulfoldum þínum ad drecka. Þetta skédi: því varla hafdi Elíeser lokid bæn sinni um hjálp ens Alvitra, fyrr enn Rebecka, dóttir Bethúels bródursonar Abrahams, kom þar ad og fyllti krucku sína med vatn, og snéri á burt. En þegar Elíeser fér til hennar og bad hana géfa sér vatn ad drecka, snéri stúlkan aptur med flýti, rétti honum kruckuna og sagdi: dreckid þér, Herra minn! en þegar hann hafdi druckid, mælti hún enn framar: eg vil líka bera vatn Ulfold-

um ydar, svo þeir verdi afþyrstir. Fliótt géck hún til brunnsins, fyllti kruckuna hvad eptir annad, uns hún hafdi vatnad ollum Ulfoldum hans. Med gladri undrun stód Eliéser þá þegjandi og sá hversu Gud hafdi bænheyrt hann. Hann gaf þessari fogru, vingjarnlegu og greidviknu meyu kostulegt gullmen og spurdi: hvers dóttir hún væri? en þegar hann vard þess vísari ad hún væri Abrahams ættar, þackadi hann Gudi innilega fyrir hjálp hans og adstod.

Rebekka flýtti sér nú heim og sagdi frá því, er til hafdi borid í ferd hennar. Laban bródir hennar géck því strax út til Eliésers og baud honum heim, sem gésti, en þessi trúi og rádvandi þjón vildi hvorki eta né drecka fyrr enn hann rækt hefdi erindi sitt. Hann lét því uppi, hverra erinda hann var þángad kominn, og hversu óskir hans til þessa uppfyllst hefdu, en med ánægju var nú máli þessu vel tekid bædi af Rebecku sjálfri og ætt hennar, því allir játudu, ad þetta væri Guds vilji. Daginn eptir fór Rebecka af stad frá Foreldra húsum, med Eliéser til Kana-

ans', en ættfólkið, óskaði henni lucku og blessunar. Heimferðin gêck farsællega, en þegar þau einhvern dag undir gvöld-tíma nálguðust bústað Abrahams, mætti Isak þeim, rett í því hann snéri heim af akurlendi sínu, hvar hann gjort hafði gvöldbæn sína. Þannin fêck Isak sér festar-meyu og leiddi hana heim til føð-ur síns. Hann elskaði hana og unnti henni mjog. Fyrst eptir 20 ára hjóna-band, gaf Guð þeim tvó sonu, Jakob og Esaú, sem véru tvíburar, þó var Esaú fyrri fæddur. Abraham hafði þá gledi að siá þessi barnaborn sín, þar eptir deyði hann 175 ára gamall. Isak várð nú hofdíngi ættar sinnar og lifði, sem guðhræddur og heidraður ættar-Fursti í morg ár, en Guð blessaði oll hans fyrirtæki. „Sæll er sá maður,“ — seg-ir Davíð — „sem óttást Drottinn og „hefir innilega laungun eptir að gjora „hans vilja; afqvæmi hans skal voldugt „verða á jorðu og ættgvísl hans bless-„un hljóta.“ „Bæn hins réttláta ork-„ar miklu“ — og — „ótti Drottins „lengir vora lífdaga, en ár óguðlegra „minnu fækka.“

## 7. Jakob.

Af Isaks tveimur sonum, var sá frumgétni Esaú fødur síns yndi; hann var hugrackur og starfsamur, en þar hjá brádlyndur, óadgætinn og þræll sinna tilhnegínga. Þar á mót var Jakob madur blídlyndur, athugasamur og gudhræddur; Rebecka elskadi hann því framar, enn bródur hans. Esaú var hneigdur til dýraveida, en Jakob kaus sér rólegt hirdara líf. Af því Jakob var minni máttar og lítilsigldari enn Esaú, lét hann ginna sig til nockurra athafna, sem ecki eru sæmandi; því, svo bar vid einusinni, ad Esaú kom heim frá dýraveidum þreyttur og svángur, rétt um þann tíma, sem Jakob sat ad máltíd og bordadi rétt úr sodnúm Linsum *). Esaú beiddi bródur sinn strax ad láta sér eptir þenna rétt, hvad Jakob og

*) Er jurt, sem vída vex um heit lønd, 9 til 12 þuml. há, dygur med blødum og belgjum í hverjum hvít og gul rånd ber finnast, nú óholl talin til matar og lækninga.

gjördi, þó med skilyrdi ad Esaú fyrst med eidi lofadi, ad eptirláta Jakobi Frumgétníngar rétt sinn, sem borgun fyrir þann rétt. Ecki vitum vér, hvert Isak vard þessa var edur ecki; en þegar hann var ordinn gamall og hrörlegur, bad hann einhvern dag Esaú, ad fara til dýraveida, en fengi hann nockud veidt skyldi hann tilbúa sér rétt af því, hvern Isak borda vildi og leggja svo sína blessun yfir Esaú, sem sinn frumgétna og ættarinnar yfirhöfud Esaú géck af stad; en þared Rebecka hafdi heyrt hvad þeir fedgar töludust vid, féck hún talad Jakob upp til ad pretta sinn gamla og blinda födur. I Esaúsar stad géck Jakob því inn fyrir födur sinn med rétt, sem Rebecka hafdi matreidt, en þar líkhamur Esaús var allur lodinn, vafdi hún lodnu skinni um Jakobs háls og hendur, svo ad fadirinn, þótt hann þeckti Jakobs málróm, um sídir héldt hann vera Esaú og blessadi hann.

Þegar Esaú kom heim, og frétti hvad um var, vard hann svo afar reidur, ad hann hótadi ad drepa Jakob,

yndireins og fadir sinn, dáinn væri. Rebecka vard vid þad óttaslegin og sendi Jakob til Mesópótamíu til Labans bródur síns og lét erindid heitá, ad hann þar leita skyldi sér qvonfángs; því Esaú hafdi, til mikillar gremju beggja foreldra sinna, ektad tvær kanverskar konur.

Í stad þess, ad verda ættar sinnar höfud, hlaut Jakob ad fara aleinn og fótgángandi í ókénnt land, því mæda og mótgángur átti nú ad laga hann svo, ad hann verdugur yrdi födur síns blessunar. Ottasleginn var hann ad sönnu á þessari for, en hann huggadi sig samt vid adstod Guds og dreymdi hann þægilegann draum, er hughreysti hann. Þad var eitt qvöld um sólarlags bil, ad hann hafdi lagt sig útaf til hvíldar á vídavángi, hvar grasid var hans sæng, en steinn í kodda stad; vyrdtist honum þá í draumi, ad hann sæi stiga nockurn reistann upp á jördu og ná upp til himins, en Engla Guds gánga hann upp og ofan, en fyrir ofan stigann þékktist hann sjá himininn opinn og sjálfann Gud þar, er sagdi til hans: „Eg er Abra„hams og Ísaks Gud! land þad, sem

„Þú nú hvílíſt á, mun eg géfa afqvæmi
„þínu; það ſkal ſvo fjölmennt verda,
„ſem duptið er margt á jördu og af
„því ſkulu allar kyngvíſlir jardarinnar
„bleſſun ödlaſt. Sjá! eg er með þér
„og vil vernda þig hvert ſem þú fer og
„annaſt þig fram og aptur.“

Jakob vaknadi hugarhreſs, þackadi Gudi og héldt fram ferdinni. Laban tók vid honum vinſamlega; kom
þeim áſamt, ad Jakob ſkyldi þjóna mödurbródur ſínum í 7 ár, til þeſs ad fá
ÿngri dóttur hans Rachel til eginkonu;
en — er þau 7 ár vóru lidin, prettadi
Laban hann og gaf honum eldri dóttur
ſína Lea. Ad ſönnu fékk hann Rachel
líka til konu ad 8ta daga freſti, en fyrir
það hlaut hann ad vinna hjá Labani í
önnur 7 árin kauplauſt. Í 6 ár þar
eptir þjónadi Jakob fyri laun, en Gud
bleſſadi ſtrit hans ſvo, ad hann eignadiſt
miklar hjardir og héldt mörg vinnuhjú.
En þeir Laban og ſynir hans urdu vid
það ofundſjúkir og leituduſt vid ad ſvíkja
Jakob, héldt hann því med konum ſínum og 12 börnum, nefnilega: 11 ſon-

um og einni dóttur og öllum eigum á burt þadan.

Á ferdinni til Kanaanslands lá vegur Jakobs nálægt bústad Esaúsar; hinn sendi því menn á fund þessa til ad grenslast eptir hugar-fari hans til sín. Sendimenn komu aptur med þá fregn: ad Esaú færi á móti honum med 400 manna. Jakob vard af þessu óttasleginn og bad Gud um adstod, en sendi bródur sínum miklar gáfur til ad blídka hann. En — undir eins og Esaú sá Jakob, sem med audmýkt géck á móti honum, flýtti hinn sér til hans og fadmadi hann ad sér med tárafullum augum. Esaú vildi annars ecki þyggja skenkíngar bródur síns, en baudst til ad leidbeina honum med hermönnum sínum, sem Jakob þó áfbad og skildu þeir vid svobúid; en Jakobi audnadist sá fögnudur enn ad finna sinn gamla födur á lífi.

„Hygginn sonur" — segir Salómon — „gledur födur sinn, en vondur „er hrygd módur sinni." — „Erfidi ens „réttláta farsælir hann, en svikargins inn„tekt er tjón; því audur fær engum „bjargad á dóms-degi, en rádvandt líf

„erni fordar frá straffi." — „Láttú ecki
„sólina undirgánga svo þér sé ecki reidi
„runnin, því gjörvallt lögmálid innifelst
„í þessu bodordi: þú átt ad elska Gud
„framyfir alla hluti, en náúngann eins
„og sjálfann þig."

## 8. Jóseph.

Jakob átti 12 sonu, af hverjum nærst-
ur þeim ýngsta hét Jóseph, sem var fod-
ursins augasteinn, því hann var sá fyrsti
sonur, sem Rachel fæddi honum. Fad-
irinn hafdi géfid Jóseph mislitann kyrtil, eins
og til ad gjöra hann audþeckilegri. Þeir
brædur hans urdu vid þad öfundsjúkir,
enda bætti ecki um, ad Jóseph á stund-
um sagdi fodur sínum frá drengjá-pörum
brædra sinna, svo þeir fengu nú hatur á
þessum bródur sínum. Auk þessa bættist
hér á ofan: ad Jóseph sagdi þeim tvo
drauma sína, sem jafnvel ad sjálfs fodur
hans áliti, vyrdtust votta drambsemi; því
dreymt hafdi hann: ad hann þóktist vera
med brædrum sínum á ökrum úti, hvar
þeir allir bundu hverr sitt korn-stánga

knippi og vyrdtist honum ad allra brædr-
anna knippi lytu sínu. Í ødru sinni
vyrdtist honum: sól og túngl og 11
stjørnur koma fram og lúta sér.

Svo bar nú til einhverju sinni, ad
Jakob sendi son sinn Jósepb ad vitja
um brædur sína, sem héldu hjørdum sín-
um á hættu-plátzi í fjærlægd. Þegar þeir
álengdar litu hann, søgdu þeir: hana!
þarna kémur drauma-madurinn! nú skul-
um vér ráda hann af døgum og segja:
ad glepsandi dýr hafi drepid hann. Sá
ellsti þeirra, er Rúben hét, afrédi hinum
ad drepa hann, en stack uppá ad snara
honum í þurra jardar-grysju, hvadan hañ
sídan hugdi heimuglega ad bjarga hon-
um og senda heim til fødur síns. En þá
Rúben var á burt genginn, bar þar ad
reisandi flock útlendra Kaupmanna, hver-
jum hinir brædurnir seldu Jóseph í þræl-
dóm. Ad vísu vard Rúben hriggur af
tiltæki þessu, er hann várd þess vísari, en
þar ecki var audid framar ad ráda bót á
þessu, leitadist hann einúngis vid, ásamt
hinum, ad dylja þetta íllvirki þeirra.
Þeir tóku því kidlíng einn, drápu hann,
dýfdu Jósephs mislita kyrtli í blódid og

sendu hann síðan fødur sínum; qváðust hafa fundið hann á víðavángi og létu segja honum: Faðir góður! mun þetta ecki kyrtill Jósephs litla sonar þíns? Jakob varð fulltrúa um, að villudýr mundu hafa rifið Jóseph í hel og var nærstum óhuggandi yfir svo elskaðs sonar dauða.

Kaupmennirnir seldu nú Jóseph til Foríngjans fyrir Konúngsins lífvakt á Egyptalandi, er Pótíphar hét. Jóseph varð skjótt Herra sínum svo ástsæll, að hann setti hann ráðsmann til að stjórna øllu búi sínu. En — nockru seinna varð Jóseph ránglega rægður við Pótíphar, svo þessi lét varpa honum í fángelsi, en allteins þar vonnst Jóseph að koma sér í mjúkinn hjá fángaverðinum, svo þessi fól Jóseph á hendur aðgætslu annara fánga þar. Á meðal þessara vildi svo til, að tveir af Konúngs hirðar heldri mønnum høfðu fallið í ónáð hjá Konúngi, nefnilega: Braudabakari hans og Skenkjari við hans hirð. Einhverja nótt dreymdi þessa menn hvern þeirra sinn draum og urðu mjøg svo hugsjúkir þar af — því aldrað fólk hafði þá

mikla trú á draumum og héldt ad opt mætti af þeim ráda óordna hlúti fyrifram — Jóseph spurdi: hvad ad þeim gengi? Þeir sögdu honum bádir drauma sína, en Jóseph sagdi: ad Bakarinn mundi hengdur verda ad fárra daga fresti, en Skenkjaranum veitast vægd og bad hann því, þegar hann kæmist til sinna fyrri vyrdínga, ad minnast sín, sem gisti hér í fángelsi saklaus. Skenkjarinn hét ad sönnu gódu um þad, en undir eins og hann komst til fyrri metorda sinna, gleymdi hann þeim munadarlausa Jóseph, sem þó huggadi hann og vidrétti í vanheillum hans.

Hverr, sem setur traust sitt til Guds, mun aldrei til skammar verda. Sá gudhræddi Jóseph fann því frelsi þá, er hann minnst vardi, Konúnginn í Egyptalandi, sem nefndist Pharaó *), dreymdi þann draum, ad hann þóktist staddur vera á Níl-fljóts bakkanum og sjá upp úr því koma 7 spikfeitar kýr, en á eptir þeim 7 adrar

---

*) Þannig vóru allir Egyptalánds Konúngar nefndir í fornöld.

horadar, sem gleyptu þær fyrri í sig, en fylltust þó alls eckert vid þær. Draum-inn gat enginn af spekíngum Konúngs rádid; en þar Konúngur vard vid þad hrïggur, datt Skeinkjaránum lokfins Jó-seph í hug, og rédi ad láta sækja hann. Jóseph kom, en Konúngurinn óskadi, ad hann legdi sér út drauminn. Jóseph var annars ecki einn af þeim svikara flocki, sem nefuast drauma-útleggjarar, hverja heilög Ritníng fordæmir; hann vissi, ad Gud einn var sá, er monnum gétur opinberad, hvad framkoma skuli. Hann ansadi því Konúngi: ad Guds eins væri ad útleggja drauma; en hann bodar Pharaó Konúngi med þessum: ad 7 velti-ár koma muni yfir Egypta-land og þareptir 7 hallæris ár.

Jóseph rédi Konúngi ad safna vist-um á þessum 7 gódu árum til eptirkom-andi hallæra. En þared Konúngur vid-urkénndi ad Gud var med Jóseph, setti hann þenna Tilsjónarmann yfir gjör-vollu Egyptalandi, svo hann, næst Konúngi sjálfum, vard tignastur mad-ur þar í ríki. Jóseph safnadi því sam-an á gódu árunum furdu miklum nægt-

um af korni, med hverjum hann, þegar hallærin adkomu, frelsadi ecki einúngis Egyptaland frá húngurs-neyd, heldur marga ásamt, sem frá nábúa-londunum, þángad komu til korn-kaupa. A medal annara komu einninn brædur hans 10 saman; en þar Jóseph þeckti þá, létst hann halda þá vera njósnar-menn; því all líklegt var, ad þeir hafi ecki þá gétad þeckt hann aptur. Til ad eyda þeirri grunsemd Jósephs um erindi þeirra, skírdu þeir honum frá: ad fadir þeirra væri enn á lífi í Kanaanslandi; þeir hefdu ad sonnu verid 12 brædur; en sá ýngsti væri heima og héti Benjamín, en tólfti væri dáinn. Jóseph héldt þeim hjá sér um 3 daga í vardhaldi, kalladi þá sídan fyrir og sagdi: gjorid nú hvad eg býd ydur, svo mun ydur vel vegna, því eg óttast Gud. Einn yckar skal hér eptir verda í gætslu, en fari hinir nú heim med korn ydar, færid mér svo hínga ad ýngsta bródurinn, þá mun eg fyrst trúa ordum ydar. Þeir brædur sogdu þá sín á milli: sannarlega hofum vér þetta verdskuldad vegna bródurs vors; því vér daufheyrdumst vid grátbeidni

hans og létum hans hugraun eckert á ofs fá. Þetta hugdu þeir ad Jóseph ecki skilja mundi, því þeir héldu hann vera þar innlendann egyptskann, þar hann brúkadi túlk til ad tala vid þá. En er Jóseph heyrdi þessar tolur þeirra, snéri hann sér undan og grét. Samt lét hann í augsýn brædranna binda Símeon og flytja í vardhald, en hinir snéru sorgbitnir heim aptur og urdu þá enn ángurværari, þegar þeir leystu frá kornseckjum sínum og fundu í þeim peníngana, sem þeir borgudu kornid med, en Jóseph hafdi bodid umbodsmanni sínum ad láta þá ofan á kornid í seckjunum.

Sá aldradi Jakob skéifdist vid bodin, sem synir hans færdu honum, en fyrst þá, er bjargar-skorturinn adþreyngdi, leyfdi hann þeim brædrum ad taka Benjamín med sér aptur til Egyptalands, eptir þad sonur hans Júda hafdi lofad ad ábyrgjást hann eins og egid líf sitt. Benjamín var ýngsti sonur Jakobs, sem Rachel fæddi honum skommu ádur enn hún deydi, þess vegna var hann bædi fodurnum og Jóseph albródur sínum kjærastur. Nú ferdut-

ust brædur Jósephs á ný til Egyptalands. med dýrmæta skenki og komu audmjúkir framm fyrir þann volduga og stránga Herra Jóseph og, ad landsvenju, féllu honum til fóta. Jóseph tók þeim vinsamlega og sagdi: hversu vegnar nú fodur ydar, sem þér sogdud mér frá? er hann enn þá lífs? þeir ansudu: ydar þjóni, fodur vorum, lídur allvel og og hann er enn á lífi. En er Jóseph kom augum á Benjamín albródur sinn, spurdi hann: er þessi ýngsti bródir ydar, sem þér sogdud mér frá? Gud blessi þig, sonur minn! sagdi hann og flýtti sér á burt til ad leita sér einrúms hvar hann fengi grátid, Þár grét hann, þvodi sér sídan í framan og hvarf aptur til brædranna, sem sátu til bords med honum og vóru gladir.

Daginn eptir lét Jóseph fá þeim korn, en í Benjamíns sekk lét hann leggja eginn silfurskál sína ofan á kornid; en er þeir vóru skammt á burt farnir, sendi Jóseph einhvern hinn helzta þjóna sinna á eptir þeim, átti hann ad skulda þá fyrir, ad þeir stolid hefdu silfurskál Herra síns. Felmtsfullir heyrdu þeir brædur

þvílíkann áburd, en qvádu engann þeirra gjörst hafa sekann í þeim glæpi. Deya skal sá — sögdu þeir — hjá hverjum sú skál finnst, en vér hinir skulum vera þrælar þíns Herra! Med flýti var nú leitad-í sérhvers secki frá þess ellsta til ýngsta, í hverjum skálin loks fannst. Þeir urdu frá sér numdir af skélfíngu og rysu klædi sín í sundur og snéru aptur til Jósephs, sem frétti þá ad: því þeir hefdu verid svo djarfir ad fremja þvílíkt skammarverk? Júda vard fyri svörum og mælti: hverju egum vér ad ansa? eda med hverju fáum vér réttlætt oss? Gud straffar syndir vorar! sjá! vér erum þrælar þínir bædi vér og sá, hjá hverjum skálin er fundin. Nei! — svaradi Jóseph — einúngis sá, sem skálin fannst hjá, er þræll minn, þér hinir megid fara í fridi heim til fodur ydar.

Júda hresstist vid þessa Jósephs mildi, géck þá fram og sagdi honum frá, hversu naudugt Jakob var ad láta Benjamín fara med þeim, en bad Jóseph ad taka sig sem þræl í stad Benjamíns; því — sagdi hann — til hvers er mér ad fara heim, nema drengurinn sé med? Þegar þinn þjón, fadir ockar sjer ad

drengiñn vantar, deyr hann vissulega af gremju, en vér munum leida hærur hans af sorg til grafarinnar. Nú féck Jóseph ecki lengur dulid vidqvæmni sína, en brast í grát og sagdi: eg er Jóseph! lifir fadir minn enn? en þared brædurnir fengu ecki ordi útkomid af ótta, héldt hann áfram og mælti: óttist ecki og qvídid engu þótt þér seldud mig híngad! því Gud hefir sendt mig til Egyptalands til ad halda ydur og mörgu fólki vid lífid. Med tárum fadmadi hann brædur sína og lét þá sídan halda heim til ad sækja födur sinn, eptir fengnu leyfi til þess hjá Kóngi, og flytja hann til Egyptalands, en bad þá fyrir ad deila ecki á ferdinni.

Sá gamli Jakob trúdi ecki í fyrstu því, er brædurnir sögdu honum, ad Jóseph enn væri á lífi og Herra yfir öllu Egyptalandi. En — er þeir sýndu honum stórgjafir þær, er hann sendi födur sínum, lifnadi þessa Öldúngs andi vid á ný og sagdi: þad er mér nóg ad Jóseph sonur minn lifir enn! já! eg vil fara ad sjá hann, ádur enn eg dey. Jakob fluttist sídan med öllu sínu til

Egyptalands, en þegar Jóseph frétti um komu hans þángad, lét hann spenna fyri vagn sinn og fór til fundar vid hann; en er þeir fundust, fèll Jóseph um háls fødur sínum og grét lengi. En Jakob sagdi: fús vil eg nú deya, fyrst eg hefi sied þig aptur lifandi. Med Konúngs leyfi, tók ætt hans nú bólfestu í landsplátsi nockru, sem hét Gósen á Egyptalandi. En eptir 17 ára búskap þar, andadist Jakob 147 ára gamall. Ad sonnu óttudust brædur Jósephs, ad hann, eptir dauda fødur síns hefna mundi grimdar þeirrar, er þeir forrmeir høfdu vid hann í frammi og gjordu því einn brædranna út til hans, til ad bidja þeim fyrirgéfníngar í þess lidna fødurs nafni; þeir komu líka sjálfir og vorpudu sér fyrir fætur hans; en Jóseph ansadi þeim grátandi: „óttist „eckí! er eg í Guds stad? þér áformudud ad sonnu ad granda mér, en „Gud hefir snúid því til góds, til ad „halda fjølda fólks vid lífid.“ Þanníg huggadi hann þá med blídmælum, því hann vissi: „ad hefndin ber Gudi“ — og — „ad vér egum þeim ad

„gjöra gott, sem oss hata og ofsókn „veita, jafnvel elska þá, sem eru vor- „ir óvinir."

## 9. Móses.

Israelitarnir — en svo nefndust Ja- kobs niðjar — bjuggu hér um 400 ár á Egyptalandi og fjölguðu furðanlega á því tímabili. En þegar ný Konúngs ætt kom þar til ríkis, sem ekkért þeckti til Jósephs mannkosta, tók Konúngur, af ótta fyrir að þjóð þessi fjölga mundi um of, að þrælka þá Ecki einúngis laaði hann á þá þýngstu þræla-störf, heldur gaf út þá grimðarfullu skipun: að öllum piltbörnum skyldi dreckja strax eptir burð þeirra. En þetta ein- midt orsakaði þó, að Guð leiddi fram og útbjó þann mann, sem hann útvalið hafði til að frelsa Israelitana úr á- nauð þeirra. Því á því tímabili fædd- ist Móses, en, þegar móðirin hafði leynt honum um 3 mánuði fyrir egyptsku boðl- unum og fékk hann þá ecki lengur dul- ið, bjó hún til byttukorn af reir*), bik-

*) Pappírs-plöntu viði.

adi hana, lagdi barnid þar í og bar þad útí sefid í Níl = fljótinu, en lét dóttur sína vera þar á vakki í kríng, ad sjá hverju byttunni reiddi af. En Gud ól önn fyrir þessum hjálparþurfa drengi, því Konúngsdóttirinn kom um þad bil ofan ad fljótinu, sá byttuna og lét sækja hana. Hún aumkadist yfir þenna nýfædda svein, en þá kom systirin ad og baudst til ad útvega barninu fóstru, svo Konúngsdóttirin afhendti þad módurinni til fósturs; en er Móses stálpadist, komst hann til Konúngs hirdar og ólst þar upp, Fursta líkt, á medan landar hans urdu undirokadir og spilltust vid þýngsta þrældóm. Í 40 ár var Móses þar; en þá vard hann ad forda sér med flótta, vegna þess ad hann hjálpad hafdi einum landsmanna sinna, og drepid egyptskañ mann, er misþyrmdi hinum. Í 40 ár héldt Móses sér uppi á Midians eydimörku, hjá manni nockrum, er Jethró hét, sem tók honum vinsamlega og gaf honum sídan dóttur sína til ekta. Einhvern dag, sem hann var á vacki med hjord sína á eydi-plátsi þessu, sá hann þyrni = búsk nockurn standa

í ljósum loga, en þó ecki eydast; gaf því enn betur gaum ad þessu og undradist þann adburd. Þar baud þá Drottinn honum ad fara aptur til Egyptalands og frelsa Israelítana úr ánaud þeirra. Móses hlýddi, geck fyrir Pharaó og bodadi honum vilja Guds. En — Pharaó vildi ecki hlýda, enn þótt Móses sýndi órækustu roksemdir fyri því, ad Gud var med honum. Tíu landplágur fylgdu hver á fætur annari, en þá fyrst, er hin tíunda kom, í hverri allir Egyptalands frumburdir, frá Konúngssyninum til betlarans sonar, dóu á einni nóttu, leyfdi Konúngur Israelítum burtfor úr Egyptalandi. Samt sem ádur var fyrsti óttinn-varla hjádinn, fyrr enn Konúng ydradi fararleyfis þessa og vetti þeim því eptirfor. Hann nádi þeim og vid rauda hafid og umkríngdi þá med herlidi sínu. En, ad bodi Guds rétti Móses út hond sína yfir haf þetta; sjörinn fjaradi burt, svo Israelítar gengu heilir á hösi yfir um djúpid. Pharaó veitti þeim þar ad sonnu eptirfor, en þá féll hafid ódt ad aptur og gróf Konúng og her hans allann á marar-botni. Mó-

ses leiddi sídan fólk sitt til Sínaí fjalls, hvar Gud gaf þeim út Lög, af hverjum þau 10 Laga bodord vóru hin fyrstu. En — jafnvel þó Israelítar daglega hefdu nýar og nýar sannfæríngar um, ad Gud, á undrunarlegann hátt styrkti Móses, vóru þeir þó alltaf hneigdir til upphlaupa og afgudadýrkunar. Skömmu eptir ad lögin vóru útgéfin og á medán Móses ennþá var á Sínaí fjalli, ad rista þau 10 Bodord á tvær stéin-töblur, kúgudu þeir bródur hans, Höfud-prestinn Aron, til ad steypa þeim kálf úr gulli, líkann Egyptalands skurdgodum. En er þeir nálgudust Kanaans landamæri — hverju landi Gud hafdi lofad þeim til eignar og hvar forfedur þeirra búid höfdu — þá hófu þeir, af hugleysi, upphlaup gégn Mósi og vildu med engu móti herja á Kanaaníta. Móses vard því, ad bodi Guds, ad veita þeim forgaungu fram og aptur um eydimörkina í 40 ár, uns allir þeir daudir vóru, sem útfóru af Egyptalandi og sem þar höfdu hneigst til afgudadýrkunar og vesæls þræla lundernis, því hverki vóru þeir hæfir né verdugir til ad vinna aptur lönd forfedra

sinna. Einúngis tveir vóru eptir af þeim, ad lidnum þessum 40 árum, sem fæddir vóru á Egyptalandi; vard añar þeirra, er Jósva hét, Mósis eptirmadur, því þegar Móses var 120 ára gamall, sagdi hann af sér, þá er hann kominn var á landamerki ens fyrirheitna lands, Foríngja-vold sín, blessadi og áminnti fólkid, sagdi því fyrir forlög þess, ef þad vanrækti Guds bodord, géck sídan upp á fjall nockurt, hvadan hann féck yfirlitid land þad, fyrir hvers inntoku hann um 40 ár hafdi unnid, en á hvert hann þó ecki mátti fæti sínum stíga, því sá var vilji Guds. Þar deydi sá mikli sendibodi Guds, en enginn veit hvar hans leghstadur er; hans lagasetníngar þeckjum vé og t. r. mun heimur þessi forgánga, enn þeirra minníng útdeyi.

## 10. Jósva.

Í 30 daga syrgdu Israelítar Móses; sídan tóku þeir sig upp undir forustu Jósva's og fóru mót Kananítum og skildi þá ad einúngis áin Jórdan. En — eins og yfir Rauda-hafid — leiddi

Gud fólk sitt yfir Jórdans-fljótid; þeir vódu sídan áfram, undrunarlega styrktir af almáttugum Gudi med einni sigursæld af annari. Á 6 árum undirokadi Jósva 31 smá-Konúnga eda Fursta, skipti sídan landinu á milli 12 kynqvísla Ísraelítanna, og lifdi upp þadan sem Lands-höfdíngi í 15 ár. Ádur enn hann deydi, kalladi hañ allt fólkid fyrir sig og héldt fyrir því snjalla rædu, í hverri hann útmáladi alla Guds miklu velgjörnínga því til handa, áminnti þad ad gæta vel lagasetnínga þeirra, sem Gud lét Móses birta þeim. Þessu lofudu þeir hátídlega, en litlu sídar deydi þessi gudhrædda og óférdræga hétja, sem trúlega fetad hafdi í fótspor Mósis og treyst, ecki á fólksins krapta eda egin hyggju-vit, heldur einúngis á Jehóva's adstod; því — allt hold er hey og frá honum einum, sem er herskaranna Herra, kémur sigur og styrkleiki.

## 11. Dómararnir.

Þegar Jósva var andadur, féllu Ísraelítar til afguda-dýrkunar og létu sig

til hennar tæla af nábúum sínum og þeim Kananítum, sem eptir hofdu ordid í landinu vid inntoku þess. En afgudadýrkun þeirri fylgdu allskonar lestir. Lög og Yfirvöld vóru ad engu hofd, en traustid á Gudi hvarf. Afleidíngin vard sú, ad útlendar þjódir undirokudu Gydínga, sem rétt nýlega undir Jósva's forustu, vóru ordnir heidíngjum skélfíng; því — ótti Guds er ríkja máttur. Ef neyd þrýsti ad þeim, ákolludu þeir Gud um hjálp, lét hann þá einstaka menn framkoma medal þeirra, er skorudu frammúr ad hyggindum og hugprýdi og med adstod Guds frelsudu landid frá óvina yfirgángi, en stjórnudu því sídan á medan þeir lifdu. Þvílíkir menn vóru hinn hrausti Barúk, sá hugdjarfi Gédeon, hinn rádsvinni Jephta og fleiri, sem nefndir vóru Dómarar, þar þeir ásamt, sem þeir ædstu í landinu, áttu ad gjora monnum lög og rétt.

A medal Dómaranna telst einnig Samson hinn sterki, sem varnarlaus drap ljón og gjordi einnig Philisteum, sem vóru fjandmenn hans þjódar, mikinn skada. En — þared hann lét heidnu

konurnar ginna sig, missti hann mátt sinn og vard loksins til fánga tekinn af óvinunum, sem stúngu úr honum bædi augun og létu þessa, ádur svo óttalegu hetju, hleckjum bundna, sem þræl, mala korn í fángelsi sínu. Einhverju sinni, þá er Philistear hjeldu mikla hátíd, létu þeir sækja Samson, til ad spotta þessa verjulausu og blindu hetju, hann bad þá til Guds, greip um mid-stólpana, er héldu uppi Goda-húsinu, í hverju þeir vóru þá allir safnadir og med forn<i> forkunnar hreysti, kollvarpadi þar med gjörvöllu Hofinu, en vard líka sjálfur undir, ásamt miklum manngrúa óvinanna.

Samúel vard sídastur Dómarasa; Hann uppólst í húsi Elí's Hofudprests, sem átti tvo óstýriláta sonu, hverra vondsku fadirinn ecki straffadi, enn þótt hann bædi þeckti og lastadi þeirra athæsi. Pad agaleysi misþóknast Drottni, því hverr, sem elskar son sinn, agar hann snemma. Gamli Elí deydi af ótta fyrir óheillum fodurlandsins, þá honum barst sú fregn, ad Philistearnir hefdu ad velli lagt Gydínganna herlid, en bádir syn-

ir hans væru fallnir í oruſtum og: ad Sáttmáls-ørk Drottins, eda sú gullbúna kiſta, í hverri geymduſt Steintöblurnar, ſem 10 Laga-bodordin vóru riſt á, hefdi ordid herfáng óvinanna. Samúel þar á móti hafdi ſied af dæmi Elí's ſona, hverſu vidbjódslegir leſtirnir eru og vard þeſsvegna rádvandur madur og gudhræddur. Þjódin valdi hann til Dómara; en hann upprætti afgudadýrkun, ſtiptadi ſkóla og ferdadiſt um landid, til ad dæma mál manna og líta eptir ad lögin væri af fólki í heidri höfd. Mannſkjæd drepſótt neyddi Philiſteana til ad ſkila Sáttmáls-örkinni aptur, en er þeir ſídar meir herjudu á Gydínga, bidu þeir óſigur; því nú treyſti fólkid Gudi og hverr, ſem reidir ſig á Drottinn, ſkal ecki gjöra þad forgéfins.

## 12. Ruth.

Á medan Dómarar ſtjórnudu í Iſrael, tók ſig upp madur nockurr med konu ſíni og treimur ſonum á burt úr Gydínga-landi, ſokum hallæris, en ſetti bygd ſína

hjá nábúa þjóð þeirri, sem nefnduſt Móa-bitar. Þar giptu ſynir hans ſig, en ſkommu ſeinna deydu bædi þeir og fadir-inn, vildi þá Naómí médir þeirra brædra fara heim aptur til ættjardar ſinnar. Sona-konurnar buduſt þá til ad fylgjaſt med henni, og onnur þeirra, ſem Ruth hét, lét eckert aptra ſér frá því, heldur yfirgaf ættíngja og vini, til ad fylgjaſt med ſinni oldrudu og fátæku tengdamódur í ókénnt land, til ad þjóna og vinna fyrir henni í hrorlegri elli. Ruthar dygd og rækt vard heldur ecki ólaunud af honum, ſem ſthrir olln. Hún géck út um kornſkéru tímann og tíndi upp korn þad, ſem eptir vard á akri audmanns nockurs, er Bóas hét, hverr einnig var frændi hennar burtdána manns; því Móſes hafdi þad í log leidt: ad korn þad, er nidurfélli á akurinn, þegar kornſtán unnar væru í knippi bundnar, ſkyldu fátækir eiga. Þar ſá Bóas þeſſa edallyndtu Ruth, en er hann vard þeſs víſari hverſu náqvæma onn hún ól fyrir Naómí, tók hann hana ſér ſídar til ekta og fæddi hún honum ſon, ſem vard Afi ens mikla og nafntogada Davíds Iſraels Konúngs.

## 13. Saul.

Þegar Samúel var ordinn gamall og hrorlegur, setti hann syni sína tvo til Dómara í landinu, til ad létta undir embættis þúnga med sér; en þeir urdu ecki jafn réttlátir fodurnum, heldur seldu þeir løg og rétt fyrir penínga. Fólkid vard uppvægt þar vid og beiddi Samúel ad velja því Konúng, jafnvel þótt því, eptir Mósis løgum, bæri ad álíta sjálfann Gud, sem þess Konúng, en ædsta Prestinn sem frædara um hans vilja. Samúel kaus um sídir, ad bodi Guds, Saul, sem var af Benjamíns ættqvísl, til Konúngs Ísraelítanna. En þar þessi úngi madur hverki var af háum stigum né vídfrægur, vóru margir svo grunnhygnir ad gjora gis ad þessa Konúngs vali. En Saul var svo vel viti borinn, ad hann ekkért kjærdi sig um þerra spéni; því skommu sídar ávann hann sér svo mikla ástsæld vegna afreks-verka sinna, ad fólkid víst mundi hafa drepid þá, er ádur toludu óvyrdulega um Konúng landsins; en Saul leyfdi ecki ad gjora þeim nockurt mein.

Lengi ríkti Saul Konúngur luckusæll og vann margann frægann sigur á óvinum landsins; of þeirri sigursæld varð hann þó að lokunum drambsamur, svo hann vildi hverki hlýdnast boðum Guðs né Móses Lögmáli. Samúel birti honum Guðs misþóknun yfir því, enda hvarf honum bæði oll heill og hugrecki. Þegar hann þannig gramdist sjálfum sér, varð hann þúngsinna, ofundsjúkur og grimhjartaður. Hljóðfæra saungur var eina meðalið, sem dreifði nockuð órósemi hans, varð því sá úngi Davíð fenginn til hirðar hans, sem vel kunni að hörpuslætti. Fyrst í stað varð Davíð þessum óheppna Konúngi kjær, en skommu seinna höfst stríð gégn Philisteum, í hverju Davíð felldi risann Golíath í einvígi með slaungu-steini, því enginn annar vogaði sér að þeim berserki; en skjótt lifnaði ofundsýki Sauls Konúngs, svo hann leitaðist við að firra Davíð lífi, en þareð Sauls Konúngs eðal-lundaði sonur Jónathan var einka-vinur Davíðs, skaut hann þessum opt undan áráisum Foðursins, svo við sjálft lá, að Konúngur mundi

drepa son sinn, því hann skaut spjóti á eptir honum. Saul Konúngur lét jafnvel drepa Hofud-prestinn og ættfólk hans, sökum þess hann hafdi fengid Davíd vopn og vistir í hendur þegar hann flúdi, þó hann ecki gæti grunad ad Davíd var fallinn í ónád Konúngs. Þannig leidir hver syndin adra af sér; aumkunarverdur er því hverr sá ógæfusami, er stígur fyrsta sporid fram á lastanna veg, því syndin drottnar med hörku, jafnvel med ánguri og orvæntíngar svipu keirir hún þræla sína áfram til ad drýgja hvern glæpinn af ödrum, uns þeir vísvitandi steypa sér í afgrunn spillínganna.

Svo fór og líka fyrir þeim ógæfusama Saul Konúngi. Stríd hófst enn á ný vid Philístea; en sú fyrrum hugprúda hetja, Saul, skalf þá á beinunum fyrir afdrifum orustunnar. Adur hafdi hann hardlega bannad spá-kerlíngum landsvist og veru þar, af því Móses lög bonnudu þvílíka hjátrú. Nú leitadi Konúngur sjálfur upp þesshattar spákonu, til ad vita fyriframm hvörsu bardaginn lykta mundi. Þótt nú Konúngur kæmi um nótt í dular-klædum, þeckti þó s

tostrkind Konúng engu ad sídur og bodadi honum í ens. burtsofnada Samúels nafni, hvers svip hún þóktist sjá koma upp úr jørdunni, ad manntjón og daudi væru honum búin daginn eptir. Konúngur snéri aptur og géck, fullur ørvæntíngar, í seinasta bardagann. Fjandmenn hans báru sigur úr býtum; hetjan Jónathan og tveir brædur hans, ásamt miklum hluta herlidsins, vóru fallnir; en Konúngur, særdur mjøg, stód aleinn uppi med skjaldsveini sínum á vígvellinum, umkríngdur af hefndarfúsum fjandmønnum. Þá beiddi hann skjaldsvein sinn ad reka sverd í brjóst sér, svo ad hann ecki félli í fjandmanna sinna hendur og sér svívyrdulega misþyrmt yrdi af þeim, en skjaldsveinninn gat ecki rádist í ad leggja hendur á þann smurda Drottins, hvers vegna Saul Konúngur stack sverd-skaptinu nidur í jørd og drap sjálfann sig. Philístearnir fundu lík hans og hengdu þad uppá múrvegg sinn til hádúngar. En innbúar Stadar nockurs, hverja Sauls hreysti fyrrmeir frelsad hafdi frá óvina yfirfalli, fóru á náttarþeli

med lífshættu inní óvinanna land og nádu líkinu ofan til greftrunar.

## 14. Davíd.

Á medan Saul Konúngur lifdi, hlaut Davíd ad flacka um kríng frá einum stad í annann, sem flóttamadur; því jafnvel þó Samúel hefdi, ad bodi Guds, smurt hann til Konúngs yfir Israel, vildi hann hverki med uppreist, né klókindum ræna kórónu Herra síns, en beid þolgódur þess tíma, sem Gud vildi veita honum hana. Alkunnugt var Jónathan, ad Davíd, en ecki sér væri ætlud Konúngs tignin í Israel; en af trúfastri vináttu gladdi hann sig yfir þeirri upphefd Davíds, óskadi sér því einúngis ad verda Davíd nærstur, þeg ar hann hafdi tekid Kóngdóm í landinu.

Tvisvar átti Davíd vald á lífi Sauls Konúngs, án þess ad gjalda íllt med íllu. Í eitt skipti bar Saul Konúng, sem þá var ad leita Davíds ad hellir nockrum, í hverjum Davíd med fylgjurum sínum dvaldi, Konúngi óaf vitandi. Konúngur lagdist þar nidur ad

sofa, og vinir Davíds ráðlögðu honum að drepa nú fjandmann sinn, sem Guð hefði sært í hendur honum; en af vyrðíngu fyrir landsins Konúngi tók Davíð fjærri því framvarpi. Hann géck að Konúngi, skar hornið af kápulafi hans, sýndi honum það síðan, þá er Konúngur vaknaði, til merkis um, að hann ecki sækti eptir lífi hans. Konúngur kannaðist við misgjörð sína og sagði: þú ert miklu réttlátari enn eg, því eg launa gott með íllu! Engu að síður lét Konúngur ecki af, að nockrum tíma liðnum, enn þá að ofsækja Davíð og kom þá í öðru sinni á Davíðs vald. Hann hafði sett herbúðir sínar á velli nockrum, hvar klettar hjeldu að beggjamegin, en þar honum var grunlaust um að Davíð væri þar í nánd, lagði hann sig óhultur og lið hans niður til svefns. Davíð géck, án þess nockurr yrði var við hann, að tjaldi Konúngs, tók frá höfðalagi hans vatnskruckú hans og spjót, géck síðan uppá klett einn og sýndi Konúngi hverttveggja. Að sönnu varð Konúngur við það bjúgur af sneipu og mælti: „Eg hefi farið villur vega og

„breytt heimskulega! en — kom þú nú „einúngis til mín, Davíd sonur minn! „Því nú vil eg ekkert gjöra þér framar.“ En þared Davíd var kunnugt, ad sinnislag ens venda er eins og hafsbylgjan, sem vindurinn biltir úr einum stad í annann, qvaddi hann Konúng kurteyslega og héldt á burt af ættjörd sinni, uns Saul Konúngur var fallin í bardaganum móti Philísteum. Sú útlenda þjód, med hverri Davíd dvaldi í útlegd sinni, eggjadi hann opt til strídø vid Saul Konúng, en jafnvel þótt Davíd sjálfur þar vid kjæmist í lífshættu, vildi hañ samt ecki beita vopnum móti eginn landsmonnum og því sídur móti Konúngi sínum.

Eptir dauda Sauls Konúngs setti hans gruggi Herforíngi Abner einn af sonum hans uppá Veldisstólin, en Júda ættqvísl ein valdi Davíd til Konúngs. Þó sonur Sauls Konúngs væri óhæfur til ríkisstjórnar og þó Abner hæfi stríd gégn Davíd og bídi ósigur af, gjördi Davíd þó enga tilraun ad vinna aptur ríkid, en hínkradi vid, uns tíminn kom. Ad lidnum 7 árum vóru bædi Abner

og Konúngur hans myrdtur og þá fyrst varð Davíð einvalds Konúngur Ísraels, en lét straffa mordíngjana. Hann lét þá byggja Hofudstadinn Jerúsalem, vann margann frægann sigur í strídum og vard mjøg svo voldugur Drottnari.

Þó nú Davíd Konúngur í mótgángi reyndist mikill og mjøg svo edal lundadur, lét hann samt medlæti tæla sig til vondra athafna. A medan herlid hans stód í bardaga í framandi landi til ad vernda heidur ríkis hans, leit hañ Bathsebu ena fógru, sem gipt var einhverjum frægasta strídskappa hans, er Urías hét. Konúngur féck samt ósæmilega ást til konu þessarar, en til ad fá hana til hjákonu, baud hann Herforíngja sínum ad setja Urías á einhvern þann hættulegasta stad í herfylkíngum hans, svo ad hann fjelli þar fyrir óvina sverdi. Herforínginn var sá heigull ad gégna og láta þetta ad ósk Konúngs; enn þótt honum bæri framar ad hlýda Gudi enn monnum. Davíd Konúngur ektadi sídan Bathsebu og meinti misgjørd sín hulin mundi mañá sjónum, allteins og ecki þirfti ad óttast framar Guds dóm eñ maña.

Nathan Spámadur géck þá fram fyrir Konúng og mælti: „Tveir menn bjuggu í einum og sama Stad; annar þeirra var audmadur mikill og átti fjölda qvikfjár, bædi stórt og smátt, hinn þar á móti var öregi og átti einúngis eitt lamb, sem hann hafdi keypt og alid upp ásamt börnum sínum. Þad át úr hendi hans og drack af hans bikar og var sem barn í húsi hans. Nú bar ferdamann ad húsum ens auduga, þessi tímdi ecki ad farga neinu af sínum mikla fénadi, heldur tók þessa einustu saudkind ens fátæka; slátradi henni og matreiddi gésti sínum til handa." Davíd gramdist þessum ótétti og mælti bistur: sá madur er sannarlega dauda verdur, sem þettà framdi! — Nathan greip ordid og sagdi: þú ert sá madur, Konúngur! því svo segir Drottinn Israels Gud: „Eg smurdi þig til Konúngs yfir fólk mitt Israel, verndadi þig fyrir Sauls ofsóknum og setti þig á Veldisstól hans, því hefir þú vanvyrdt Guds bod og drýgt íllt fyrir augliti hans? þú hefir myrdt Urías med sverdi fjandmanna þinna, en tekid konu hans þér til ekta."

Allt eins og Samúels raust reffaði Saul Konúngi forðum, þá hann braut boðorð Guðs, svo átaldi nú Nathan með hugdjarfri alvörugefni Konúng sinn. Saul kannaðist að sönnu við misgjörð sína og skélfdist yfir hótuðu straffi, betraðist samt ecki, af því hann var syndinni seldur. En Davíð þar á móti ýðraðist syndar sinnar, auðmýkti sig fyrir Guði og lagði síðan alla alúð á að gjöra hans vilja, því fyrirgaf gæðska hans hönum afbrot þetta. Þó varð hañ mikill mæðumaður seinna meir, því fyrsti sonurinn, sem Bathseba fæddi honum, deyði litlu síðar; annar sona hans varð drepinn af eginn bróður sínum, en einna svíða-mest varð honum það, að tveir egin synir hans gjörðu uppreist gégn honum. Annar þeirra, er Absalon hét, hafði með vinsemd og fríðleika sínum áunnið sér hylli þjóðarinnar, styrktur af fláráðum manni, að nafni Achitóphel, sem þángað til verið hafði ráðgjafi Konúngs. Absalóni luckaðist að safna herliði og var við sjálft búið, að hann kæmi á óvart Föður sínum í Jerúsalem. Davíð Konúngur flýði fótgángandi frá Höfuðstað sínum,

med fáeinum villdar=monnum og leyndist hinum=meginn Jórdanar fljótsins. Á leidiñi vard fyrir Konúngi mañfýla nockur, er Símei hét og þad hrakmenni, ad smána Konúng sinn þá í bágindum staddann, en hann bannadi monnum sínum ad hegna honum; þar á móti leitadist annar vid, er Barsillaí hét, ad ráda bót á raunum Konúngs, med því ad færa honum vistir og veita alla þá hjálp í neyd hans, sem trúlyndum þegni vel sómdi.

Herforíngi Davíds Konúngs, strídshetjan Jóab, safnadi í skyndi herlidi saman og fór á móti Absalóni, sem, þvert á móti Achitóphels rádum, dvalid hafdi í Jerúsalem og misti þar vid hvad áunnid var. Achitóphel, sem gjordi sér von um ad komast til stjórnar í nafni þess fákjæna únglíngs, fann þá hrecki sína med ópock launada, hengdi sjálfann sig og féll, ad verdugleikum, í grof þá, sem hann hafdi odrum grafid. Absalóni reiddi ecki heldur betur af, því Jóab vard honum yfirsterkari, en er hann brast á flótta, flæktist hans fagra og mikla hár í greinir á tré nockru, hjeck hann þar og nádist, en Jóab vard bana=

madur hans, jafnvel þó Konúngur harðlega bannað hefdi að drepa son sinn, hvern hann innilega elskadi og syrgdi hann látinn.

Eptir svo margar biltíngar luckunnar, deydi loks Davíd Konúngur, gamall og saddur lífdaga. Hann var mikill Konúngur og eptirmenn lofudu stjórn hans, sem gull-old ríkisins. Hann var ágætt Skáld, hvar um vitni bera hans morgu líflegu Sálmar, sem kunnir eru undir nafninu: Davíðs Psaltari. Þannig hljóðadi ydrunar-Sálmur hans, þegar Nathan hafdi kénnt honum að vidurkénna synd sína: „Guð! vertú mér „mildur af miskun þinni! gjør að engu „mín afbrot með þinni góðgirni, því „eg þecki misgjord mína og mín synd „er mér æ fyrir augum. Guð! skapadú hreint hjarta í mér og géf mér „nýjann, stodugann anda! útskúfa mér „ecki frá augliti þínu og taktú ecki þinn „heilaga Anda frá mér! ecki hefir þú „þócknun á offri, því annars hefdi eg „sært þér það; á brennifórnum hefir þú „enga géðþeckni. En sundurkraminn „andi, er sú fórn, sem þér líkar, sund-

„urmarid og ángrádt hjarta munt þú,
„Gud! aldrei fyrilíta!" (Psálm. 51.)

## 15. Abigael.

A medan Davíd hraktist landflótta um fødurland sitt, til ad fordast óssóknir Sauls Konúngs, dvaldi hann um hríd í nágrenni vid audugann, en ágjarnann mann, ad nafni Nabal; hann átti mikl- ar hjardir, sem Davíd med fylgjurum sínum vardi fyrir ræníngja áhlaupum. Þegar sá tími kom, ad klippa skyldi saudféd, sendi Davíd til Nabals og bad hann ad géfa sér matbjørg nockra fyrir sig og menn sína; því í venju var leidt ad hirdurum væri haldin veitsla, þegar lokid var klippíngu fjárins, líkt því ad slægjur géfast hjá oss (sláttufólki). En þá þøckum vér Gudi, sem hæfir, veitta velgjørnínga hans, þegar vér hjálpum eptir efnum, þurfandi brædrum vorum, auk þessa er gledin von ad mýk- ja hjørtu manna til þess og géstristni er, jafnvel medal villi-þjóda, haldin heilog skylda. En — Nabals hugarfar var ecki þvílíkt; hann ansadi sendimanni Da-

víds með spotti: „hverr er — sagði hann — þessi Davíð Ísaíson? svo marg-ir strjúka nú um stundir frá Herrum sín-um, að eg vil hverki géfa brauð né slát-urfé mér óþecktum mönnum." Davíð reiddist svari Nabals og fór með menn sína til bæjar hans til að hefna van-virðu þessarar. En á meðan hafði Abí-gael, kona Nabals, komist að, hversu óþockalega manni hennar farist hafði; með skyndi hlóð hún saman miklum nægt-um matvæla, kjöti og brauði og jarðar-ávoxtum og fór með þetta á móti Davíð, án vitundar manns síns. Þá er þau Davíð fundust, talaði hún svo mjúkt og skynsamlega við hann, að honum rann öll reiði og þáði hann með þacklátsemi gjafir hennar og einkum það, að hún hefði aptrað hans áformaða ofríki, hvers hann síðar meir mundi iðrast hafa. Þannig frelsaði þessi skynsama kona fólk og heimili frá lífs og eigna tjóni, þó ecki fengi hún fríað sinn fávísa mann frá verðskulduðu straffi; því, þegar hann daginn eptir raknaði úr rotinu og féck að vita í hvílíkum háska hann staddur var, varð hann svo gagntekinn af megnri

hrædslu, ad hann deydi 10 dögum sídar, mátti því naudugur viljugur ad öllu leiti yfirgéfa braud og kjet og ölfaung sín.

„Hverr, sem hædir þann vesæla" — segir Salómon — „smánar þann, er skóp hann" — og — „hverr, sem „launar gott med íllu„ frá þess húsi „skal ógæfan ecki víkja." — „Sá, sem „er reidigjarn, breytir ránglega, en þol„inmódur madur er betri en hinn sterki." — „Sá er madurinn meiri, sem stjórn„ar gédi sínu, enn hinn, sem yfirvinn„ur borgir." — „Blídyrdi eru hunángi „lík, þau eru sálunni sæt og lækna hjörtu „vor." (Ordsqv. b. 17; 5, 13. 16; 32, 24.)

## 16. Salómon.

Þegar Davíd Konúngur deydi, erfdi sonur hans ríkid eptir hann og lét byggja hid kostulega Jerúsalems Musteri til Gudsþjónustu-gjördar; því þángad til var tjaldbúd brúkud, eins og Móses hafdi hana tilbúid á ferdinni um eydimörkina. Í tjaldbúd þessari var offrad á vissum tímum og haldnar bænir til

Guds. Ad soñu visßi Salómon — eins og hann siálfur sagdi, þegar hann lét vígja Musterid — ad Gud býr ecki í húsum, sem giørd eru af manna hønd- um, því allur himininn fær hann ecki inniluft, heldur átti dýrd þessa prýdilega mikla Musteris ad minna fólkid á, hversu hár sá Herra væri, sem þvílíkt hús var tileinkad.

Salómon ríkti med rósemd og fridi alla æfi, nafntogadur um giørvalla Austur- álfu fyrir stakstegann vísdóm, svo ad jafnvel Drottníng nockur kom frá fjar- lægu landi til ad heimsækja hann og hlýda á rædur hans. Sem Dómari vottadi hann hygginda snilld sína, þegar mædur tvær komu fram fyri hann, en ønnur þeirra hafdi legid barn sitt í hel um nótt, en sídan stolid barni frá hinni, sem hún qvad vera sitt. En þar rok- semdir skortu af beggja mædra hendi, baud Konúngur loksins skutulsveini sín- um, ad hluta barnid med sverdi í sund- ur á milli qvendanna, sem deildu um þad, med hverju hann komst fliótt eptir, hver sú sanna módir þess væri, þar þessi ótt- adist ad þetta vera mundi full alvara

Konúngs og kaus því heldur ad hin fengi barnid, enn ad þad drepid yrdi fyrir augum sér. Enn meiri votta hofum vér um þessa speki Salómons Konúngs í þeim heilogu ritgjordum, sem honum eru eignadar, nefnilega: Ordsqvidum hans, Prédikarans-bók og Lofqvædinu, því þær kénna oss ad þeckja vitsku og réttindi; grannvitrir verda hyggnir af þeim, en úngum kénna þær vísdóm og vitur hyggindi. Samt sem ádur tældist þessi vitri madur, af útlendum konum, sem hann ektad hafdi, til ad lída þeim afgudadýrkun og ad þær þar vid leiddu adra til ad gleyma þeim eina og sanna Gudi, hvers vegna ríkisstjórnin jafnvel ad honum lifanda, vard á voltum fæti.

## 17. Rehabeam.

Eptir andlát Salómons Konúngs, safnadist þjódin til ad velja sér nýann Konúng. Hún gjordi út sendiboda til Sonar Salómons Konúngs, sem hét Rehabeam og qvatst vilja hylla hann til Konúngs, ef hann vildi létta nockud á þýngslum þeim, er fadir hans hefdi

lágt á þegna sína, til frama metnadar og sællífis lyst sinni. Rehabeam rádgadist um bodskap þann vid Oldúngana, er verid hofdu rádaneyti Salómons Konúngs fodur hans og ásamt honum yfirvegad lands, og lýda þarfir. Þeir svorudu: láttú í dag ad ordum fólksins og gegndu þeim blídt, svo verdur þad þér upp þadan þjónandi á medan þú lifir. Rehabeam fjellst á Oldúnganna rádleggíngu, en spurdi úngmennin, sem med honum hofdu alist upp og vóru hans felags-brædur, hvernig þeim litist á? Þessir rédu honum þvert á móti Oldúnga rádunum, ad svara þegnunum þannig: hafi ydur þókt fodur míns álogur þúngar, þá vitid víst, ad þær munu þýngri verda; fadir minn typtadi yckur einúngis med svipum, en eg skal typta ydur med spord-drekum; en svo óframsýnir þessir rádgjafar vóru, gaf Rehabeam samt þetta drambsama heimskusvar Sendiboda fólksins. En undir eins og samkoma fólksins heyrdi Rehabeams ord, ansadi þad þyckjuþúngt: hvad vardar ockur þá um Davíd? Þær 10 ættqvíslir voldu sér því annann Konúng,

sem hét Jeróbóam, en einúngis Júda og sú litla Benjamíns ættqvísl hylltu Rehabeam. Um seinann leitadist þessi Konúngur vid ad komast aptur í sátt vid fólkid, sem hann þanninn egndi upp sér á móti, því þad grýtti til heljar Sendiboda hans. Hann greip jafnvel til ofríkis, en spámadur nockur géck þá fram, baud honum ad géfa herlidinu burtfararleyfi og sagdi: ad Gud vildi ecki lída ad brædur beittu sverdi gégn brædrum.

Þannig sundradist Davíds Konúngs volduga ríki, jafnvel undir sonarsyni hans, stiptudust tvö Konúngs ríki af einni og sömu þjód, nefnilega: Júda og Jsraels, ecki fullum 1000 árum fyri Krists burd. Þjódin bardist hver vid adra innbyrdis og urdu því heldur óvinum ad brád. Rehabeam Konúngur breytti því mjög fávíslega, því — „drambid géngur á undan fallinu og túngan er lítill limur, en gétur opt ollad mikils ílls; hún er eins og lítill neisti, sem setur stórann skóg í bál.“ Allteins breytti fólkid heimskulega, sem ecki reñdi grun í: — „ad hvert ríki, sem í sjálfu sér er sundurþyckt, mundi eydast og aldrei fá

stadist." — Fallin vóru því úr minni Davíds orð, er hann sagði: „Sjá! hverśu gott og yndislegt það er, að bræður búi í einíngu! það er allteins og doggin, sú lifandi dogg, sem fellur yfir fjallið Zíon." — „Mikil reynsla" — segir Jesús Sírachsson — „er kóróna enna gomlu; því sómir þeim gráhærða að uppsegja dóma og gomlum að géfa gagnleg ráð, því úngdómur og speki búa ekki ætíð saman."

## 18. Achab.

Jeróbóam var fyrstur Konúnga í Ísraels ríki; hann framdi íllt fyrir augliti Guðs; því hann óttaðist, svo framt fólkið hjeldi uppi venjunni að ferðast til Jerúsalems til offur-hátíðanna, mundi það sætta sig við ættínga sína í Júda ríki, hvers hofuðstaður var Jerúsalem. Hann lét því steypa og reisa upp Gullkálfa tvó, sem áttu að vera eptirmind Guðs, eins og hann sá tíðkast í Egyptalandi. Bílæti þau vóru tilbeðin og þeim fórnir færðar bæði af Konúngi sjálfum og þjóðinni. Heimskuleg og íll

var sú slægvitska sprottin af rót í ógudlegu og ferdrægu hjarta, enda vard á vorturinn fullkomin spilling hans og þjódarinnar. Sonur Konúngsins vard myrdtur af upphlaups-manni, en gjörvoll ætt hans aumkunarlega af dögum rádin og eins reiddi sérhverri ætt af, sem gjordi tilraun til med valdi ad ræna sér veldissprotann í Israels ríki. Undirokan, glæpir, húngur og fjandmanna yfirrád, urdu nærstum því sífeldar plágur þessa vesæla fólks, er svikid hafdi Gud sinn og Konúng.

Lakastur á medal vondra Fursta var þó Achab Konúngur, sokum þess, hann lét sína vondu Drottníngu, þá hundheidnu og grimm-hjörtudu Jessabel ráda fyrir sér, en Gud hafdi þó géfid honum oll efni til ad verda gódur stjórnari; hañ lét Sendiboda sinn, þann mikla Elías Spámann, opt advara hann og ávíta, en til einkis. Achab féck einhverju sinni girnd mikla til ad eignast víngard nockurn, er rádvandur madur átti, ad nafni Naboth. Achab bad hann selja sér gardinn vid verdi; en af því Mósis log bönnudu ad selja fasteign

sína, neitadi Naboth bæn Konúngs. Achab var þræll girnda sinna, géck heim, lagdist hugsjúkur í reckju og át hverki né drack. Jessabel frétti um orsøkina, en þá er hún vard hennar vísari, mælti hún med spélni: ertú verulegur Konúngur í Israel? fardú á fætur! vertú kátur og gladvær! jeg skal géfa þér víngardinn hans Naboths! A augnabliki sendi þessi vonda Drottníng ord Dómurunum í stadnum, hvar Naboth bjó, baud þeim ad stefna þeim rádvanda Naboth fyrir rétt, leida falsvotta, er skulda áttu hann fyrir, ad hann hafi spettad bædi Gud og Konúnginn, dæma hann sídan til dauda og grýta þenna saklausa mann í hel, en dæma allt hans góz undir Konúng. Yfirvaldid í bæ þessum var nógu huglaust til þess, ad voga ord ad mæla gégn þessari skipun, sem baud: ad bera falskann vitnisburd og úthella saklausu blódi.

Undir eins og Drottníng féck ad vita, ad Naboth var grýttur í hel, lét hún þenna dádlausa Fursta vita, ad nú væri Naboths víngardur eign hans, án þess ad grenslast eptir med hverju

móti gardurinn var kominn í eigu hans, skundadi hann þángad gladvær til ad lýsa hann eign sína, en naumast hafdi hann stígid fæti sínum á þessa dýrkeyptu eign, fyrr enn Elías-Spámadur géck fyrir hann og bodadi honum Guds hegníngu fyrir þad framda mord. „Á þessum stad" — sagdi Spámadurinn — „hvar Naboths blódi vard úthellt, skulu hundarnir sleikja Achabs blód." Kon-úngurinn kannadist vid 'afbrot sitt og yfirgaf mèdfallinn þenna fagra víngard í odru sinni. En — hann var þræll syndarinnar og megnadi ecki úr því ad brjóta af sèr ok hennar, hverju ordugt, sem honum þad yrdi. Hans æfilok urdu því eins sorgleg og æfi hans. Í bardaga mót honum fjandsinna Konúngi, sem launadi honum velgjordir med því ad sitjá um líf hans, hæfdi hefndar orin Achab, enn þótt hann gengi í dular-klædum í bardagann, sem sléttur hermadur. Hann vard fluttur sár til Naboths bæar, hvar hann endadi æfina. Tveir synir hans, bádir vondir, stigu á veldis-stólinn eptir hann. Sá fyrri ríkti einúngis í 2. ár, því hann týndi heilsu sinni

af biſtu og litlu ſídar líſinu; hinn vard, áſamt gjørvallri Achabs ætt myrdtur af uppreiſtar-manni, ſem med valdi ſetti ſig á Iſraels veldis-ſtól. Hann lét og kaſta Jeſſabel út um glugga á Konúngs-hollinni og lík hennar liggjá þar ógraſid hundum til átu.

## 19. Hoſea.

Spámadurinn Elias vandlætti opt og tídum um afgudadýrkun og leſti þá, er eyddu Iſraels ríki, en til ſergéſins. Hann vard vegna ofſókna ad flacka um kríng í framandi londum og á eydimørk-um; en Englar Drottins færdu honum fædu og á nóttum, þá allt var kyrrt, heyrdi hann rauſt ens Hærſta, ſem hughreyſti hann mæddann, med von og krapti til ad rækja kall ſitt, uns Gud um ſídir med undrunarlegum hætti veik honum burt af jørdunni til viſtar hjá ſér. Hans frómlundadi Læriſveinn, Spámadurinn Elíſa, reyndi einnig til ad eyda Furſt-anna og fólkſins ſpillíngu. En jafnvel þó bædi hann og frædari hans Elías, uppvektu dauda, med adſtod Guds, vildu

þeir lifandi daudu, samt engann gaum gèfa þeirra roddu. Sídarmeir hljómadi Guds rodd til fólksins af Hósea's og Amo's Spámanna munnum, hverra sá sídari vard kalladur frá smalamennsku til Spámanns; engu ad sídur vidhélduft og drottnudu afgudadýrkan, vondska og vellyst allstadar í landinu, bædi í Konúngs-hollinni og betlarans kofa. Hver uppreistin bráutst fram á fætur annari og í gégnum blódvadla lá vegurinn upp ad þeim rambanda veldisstóli.

Loksins bar ad hegníngarinnar óttafulla tíma. Konúngur nockurr, ad nafni Hósea, sat þá á Israels veldisstóli; ad vísu var hann ecki jafn-ógudlegur þeim flestu af Formonnum hans; þó hafdi hann rænt kórónunni med því ad myrda Konúng sinn. I 9 ár sat hann ad ríki, en vard þó ad vera Salmanassar Konúngi í Assyríu undirgéfinn; en þegar hann loks vildi hrinda af sér hins oki, kom Assyríu herlid, inntók landid, varpadi Konúngi í járnfjotur og herleiddi allt fólkid burt til fjærlægra og ókunnra landa, hvadan þad aldrei komst aptur. Þanninn leid Israels ríki undir lok, er þad

þad haldist hafdi í 250 ár, til vitnis um Drottins miklu þolinmædi. Þetta eydda land bygdu nú heidíngjar, sem Salmanassar Konúngur þángad sendi. Þeir urdu plágadir af villidýrum, en tóku Gydínga trú þá fram lidu stundir. Eptir Høfudstad landsins, Samaríu, vóru þeir kalladir Samarítanar.

## 20. Jósaphat.

Med uppreist hafdi Ísraels ríki stiptad verid og svikari var þess fyrsti Konúngur; þar kom því hver Konúngs ættin á fætur annari til stjórnar. Þar á móti sat ætt Davíds Konúngs stødug á veldisstólinum í Júda ríki og ýmsir stjórnenda reyndust gudhræddir og gagnlegir ríki sínu. Jafnvel undir stjórn Rehabeams Konúngs, vard Jerúsalem inntekin og Musterid rænt af útlendum Konúngi. Svo dádlaust reyndist allt gullid, er Salómon Konúngur safnad hafdi, af því ad Rehabeam óttadist ecki Gud. Undir stjórn ens 4da eptirkomara hans, er Jósaphat hét, blómgadist og efldist

ríkid á ný, því hann var rádvandur Kon-
úngur og gódur. Hann eyddi skurdgoda-
dýrkun, bygdi ramgjörva kastala, skipadi
Dómara í gjörvöllu ríkinu og lagdi ríkt á
vid þá ad vanda vel verk sín; „því" —
sagdi hann — „þér fellid ecki dóma ein-
„úngis fyrir manna, heldur og auglit
„Guds, sem er allstadar nálægur; láti
„því Guds óttaun drottna yfir ydur o
„verid áhyggjufullir um ad dæma hva
„rétt er; því hjá Drottni Gudi vorum e
„enginn órétur til, né heldur manngrein
„ar álit; hann þyggur heldur ecki mú
„ur eda gjafir."

Gud blessadi líka stjórn þessa gud-
hrædda Konúngs; hann sigradi fjand
menn sína og sat med heidri á Davíd
Konúngs-stóli í 25 ár, Hann breytti ei
úngis fávíslega í því ad binda vinát
og tengdir vid þann vonda Achab Ko
úng, og enn framar, er hann feck Ath
líu dóttur hans syni sínum til eginkon
Réttilega advarar því Salómon o
„Gack þú ecki á vegum ens óguðleg
„né á stígum ens vonda; því sá, se
„umgengst vitra menn, nemur speki,
„heimskíngjans stallbródir steypir sér

„spillínguna." Í bardaga þeim, hvar Achab fiell, lá vid siálft ad Jósaphat Konúngur væri drepinn í hans stad, þar fiendur hans héldu hann vera Jsraels Konúng; en eptir Jósaphats Konúngs andlát, tældi Athalía son hans til, fyrst ad drepa alla brædur sína og sídan ad falla til heidni. En þegar hann var dáinn, lockadi hún son sinn til afgudadýrkunar og lofsins, þegar hann vard myrdtur á vina-fundi hiá Jsraels Konúngi, um þad leiti øll Achabs ætt vard afmád af uppreistar mønnum, vippadi Athalía sér siálf uppá Davíds Konúngs hásæti og lét gjørvalla Konúngs ættina myrda, ad undanteknu einu barni, sem Høfudspresturinn féck undan skotid og ól þad sídan upp í musterinu.

J. 6 ár stýrdi Athalía ríkinu eins og sambaud dóttur Jessabels Drottníngar, en úr því aftók Høfud-presturinn hennar lengri vondsku ríkisstjórn, er hann þá setti þann frelsada Prins, sonar-son hennar á veldisstól Fedra sinna. A medan þessi Guds madur lifdi, stjórnadi úngi Furstinn vel, en eptir andlát Høfudpréstsins

ins, setadi hann einnidt í Achabs spor, lét tæla sig til afgudadýrkunar, lokadi musteri Drottins og lét gŷta í hel son velgjörda manns síns í forgardi musteris ins. Svo hriggilegar afleidíngar fyrir ens góda Jósaphats ætt, hefdu vendsli vid Achabs hús.

## 21. Ezechias.

Einhvert hinn edal-lundadasti, sem á Davíds veldis-stóli sat, var sá gudhrædd Ezechias. Fadir hans hafdi verid sam vitskulaus Stjórnari, sem rændi og rupl adi musteri Guds til ad kaupa sér frid med hjá útlendum Konúngum, undan hverjum hann vard ad hrökva, en er þeir tóku gull hans og gersemar og eins fyrir þad undirokudu hann, lét hann sækja Skurdgod þeirra, til ad leita hjá þeim hjálpar og huggunar. Ezechias þar á móti lestadist vid, sem gudhræddur mad ur og gódur, ad vidrétta þad, sem fallit hafdi undir födursins stjórn; frómlynd hans frelsadi einnig landid frá eydilegg íngu og birjun ríkis hans, hafdi Is raels ríki verid kollvarpad af Assyrim

monnum, hverrá herlid sídan vód upp til Jerúsalem, til þess einnig ad gleypa í sig þessar litlu leifar af Davíds vold-uga ríki. Kunnugt var Ezech'as ad vísu, ad hann ecki hafdi jafnlidad þeim, en hann vonadi á Drottinn og auk þess hvatti Esajas Spámadur hann til hug-prýdi. Med spaklyndi mælti hann til strídsmanna sinna: „verid vongódir og öruggir og óttist ecki Assyríu Konúng né hans hid mikla herlid, því hann er miklu meiri, sem med oss er enn honum!“ Vonin brást honum ecki heldur; med ó-grynni hermanna umkríngdi Assyríu Konúngur og med miklu monti, Stadinn Jerúsalem; því á eini nóttu drap sverd Drottins 180,000 (hundrad og áttatíu þúsundir) í herbúdum, svo Konúngur mátti med skömm og sneipu rolta heimleid-is aptur.

Samt sem ádur freistadist Ezechí-as af medlæti til drambsemi, þegar Esajas Spámadur haidi med adstod Guds og furdanleaum hætti, reist hann á fætur úr sétt, komu til hans Sendi-bodar frá Babylóns Konúngi, sem áttu ad óska honum til lucku med aptur fengna

heilsu og beidast vináttu hans. Ezechías kjættist af þeirri vyrdíngu og sýndi þeim alla þá miklu fjársjódu, er hann safnad hafdi um sína laungu og farsælu Stjórnar-tíd, svo þeir gætu því heldur dádst ad veldi hans; en undir eins og Sendibodarnir hvurfu á burt, kom Esajas Spámadur til Konúngs og mælti: „Fjársjódu þá, sem þú af metnadi sýndir Babýlons Sendibodum, skal Babýlons Konúngur sídar meir hafa á burt hédan og í borg hans skulu eptirkomendur þínir þjóna."

## 22. Zedechias.

Þad, sem Spámadurinn hafdi fyrísagt, uppfylltist hér um bil 100 árum seinna, því einúngis einn Konúngur af Ezechías's eptirmönnum verdskuldar ad nefnast hans jafnoki. Manasses Sonur hans var gudlaus stjórnari, sem jafnvel brenndi egin börn sín þeim leidu skurdgodum til heidurs. Þó snéri hann sér til Guds á ný, eptir þad hans fjandmenn hösdu sigrad hann og í járnfjötrum fært á burt, svo ad hann, eptir þad hann slapp

úr fángelsi, stjórnadi allvel. Sonar-sonur hans Jósias, géck í Ezechías's fótspor og lagdi allann hug á ad lækna þau djúpu sár, sem ríkid fengid hafdi med því ad leitast vid ad endurlífga dygd og Guds ótta, sem þá vóru ad mestu út-læg ordin. Hátídlega héldt hañ þá í seinasta sinni, ádur ríkid kollvarpadist, þá Páska-hátíd, sem Móses stiptadi til endurminn-íngar um útfor Israels fólks úr Egypta-landi og med áhug og fylgi miklu lét hann vidrétta þad hrorlega Jerúsalems Musteri. Losfverd var sýslan hans; en gódir Furstar megna þó ecki ad bjarga þjód þeirri, sem lykur augum sínum aptur, svo ecki sjái hún frelsi sitt. Jósias offradi lífi sínu fyrir veiferd landsins, er hann féll í bardaga vid þess fiandmenn. Þrír af sonum hans stigu hverr eptir annann á veldisstól fodursins, þó enginn þeirra þar til verdugur væri, enda urdu þeir allir útlendum Furstum lýdskyldir.

Sá seinasti þeirra, er Zedechías hét, var ollu heldur gúngu-enn vondsku-menni, enda galdt hann mjøg svo egin og fedra sinna synda. Um tíma var hann skattskyldur Babýlons volduga

Konúngi Nebúkadnesar, því þessi hafdi lypt hinum upp á veldis-stólinn. Dramblátir Hershöfdíngjar og oftraust á lidsinni framandi Fursta nockurs, tældi um sídir þenna hviklynda-Konúng til ad brygda trúnad þann, er hann svarid hafdi Nebúkadnesar Konúngi. Ad engu haldi komu honum advaranir Jeremíasar Spámanns, móti þeirri fíbldjörfu og svikulu breytni, því valdamenn ofsóktu hann og misþyrmdu honum, svo Konúngur sjálfur vogadi ecki, sokum ótta fyrir þegnum sínum, ad tala ord vid hann, nema heimuglega, þar honum var í fángelsi varpad. Loksins kom Nebúkadnesar fram med herlid, lagdist um Jerúsalem og inntók hana um sídir med áhlaupi. Ad sonnu flýdi Zedechías og fólk hans med honum um nóttina út úr borginni, en ecki leid á laungu uns óvinirnir nádu þeim. Konúngur vard til fánga tekinn, born hans vóru drepin fyrir augum hans, en bædi hans augu sídan úr honum stúngin. Sjálfur vard hann eptirá fluttur í fjotrum til Babýlonar og allt hans fólk, sem fángar; en fjandmenn brutu nidur Jerúsalems múrveggi,

brenndu musterid og gjøreyddu med eldi hofgørdum hinna voldugu med øllum fjársjódum þeirra. Þanninn lagdist land þetta í eydi, ecki fullum 600 árum fyrir Krists burd, en fólkid vard burtflutt í þrældóm, hvad svo opt og og-tídum af Drottins Sendibodum var því fyrirsagt.

## 23. Spámennirnir.

Eptir Guds alvísu rádstøfun, vóru Gydíngar sú þjód, hjá hverri trúin á einann og sannann Gud átti ad vidhaldast, midt á milli hjátrúar og afgudadýrkunar, uns sá tími kjæmi, sem Jesús Kristur heimsins Frelsari birtast átti á jardríki, til ad kunngjøra vilja síns Fødurs, sem sendi hann.

Þessa vegna lét Gud Móses stipta Gydínganna stjórnar-form, svo ad øll þjódarinnar Løg og allar nidurskipanir bygd væru á trúarbrøgdunum. Þjódin átti ad álíta Gud, er hún nefndi Jehóva, sem hinn eginlega Konúng, hvers løg vóru hans vilji. Leví ættgísl vóru Prestar og ásamt yfirvold landsins, sem

áttu ad dæma á milli brædra sinna og uppfræda þá. Af því þjódin var lítt sídud, en fylgdi skilníngar-vitanna tilhneigíngum, stiptadi Móses hátídlega Gudsþjónustugjörd med margbreyttum sidum og fórnfæríngum, er minna skyldi fólkid á skyldu þess vid Gud. Móses sagdi því og fyrir, ad einúngis þeir mundu farsælir verda, sem stödugt hlýddu Lögmálinu og trúlega dýrkudu Jehóva; en ad þeir, sem brytu bodord Guds eda fjellu til afguda dýrkunar- og lasta, mundu verda fyrir þýngstu hegníngu, uns þeir betrudu sig. Jésúa vard eptir Móses, fólksins leidtogi, en á medan hann lifdi, dýrkadi það Gud samqvæmt Mósis Lögmáli. En þegar framlidu stundir og undir Dómara stjórninni, var sjaldan nockurt Yfirvald í Israel, hverr og einn lét og lifdi eins og hann vildi, en Lögmálid gleymdist uns Samúel kom fram, og leiddi þjódina aptur á réttann veg til ad hlýdnast Mósis lögmáli. Í hans fótspor gengu bædi Davíd og Salómon og um þeirra daga héldust líka login í heidri og ríkid stód þá í blóma; en þá er til skiptanna kom á ríkinu, leid hin

sanna Gudsdýrkan nærstum því undir lok vegna afgudadýrkunar í öllu Israels ríki, sem þær 10 ættqvíslir bygdu. Þar á móti vidhéldst Gudsdýrkan í Júda ríki, jafnvel þótt heidnir Furstar opt brytu lögin og þó fólkid þar hneigdist til afgudadýrkunar, eins og nágranna þjódir þeirra. Orsökin, vegna hverrar Jehóva's trúarbrögd vidhelduft heldur í Júda enn Israels ríki, var ad nockru leiti sú, ad Musterid og Prestarnir vóru í Jerúsalem, líka sú, ad af Davíds ætt komu nockrir gódir Furstar til stjórnar.

Spámennirnir vóru samt einkanlega þeir, sem vidhéldu trúarbrögdunum, en svo nefnduft menn þeir, sem vóru útbúnir gudlegum krapti, töludu í nafni Guds til Furstanna og þjódarinnar, ávítudu lesti þeirra, hughreystu þá á neydartímum og fyrirsögdu ókomna hluti. — Laungu fyrirfram höfdu þeir, nefnilega, spád fólkinu: ad svo framt þad ecki betradi sig, mundu fjandmenn kollvarpa Davíds Konúngs-stóli, en herleida fólkid á burt í þrældóm, hvad einnig framkom á Hóseasar og Zedechíasar dögum.

Enn framar hétu Spámennirnir fólkinu, ad þegar vanheillir þess hefdu kénnt því ad þeckja Guds ótta einann ad vera heilla medalid, mundi Gud miskuna því, og senda þad undan fiandmanna oki heim aptur til þess fødurlands. Loksins bodudu Spámennirnir einnig: ad Gud á vissum af honum ákvednum tíma mundi senda þiódinni Konúng af Davíds kynþætti, er vera skyldi eginn Sonur hans, frelsa gjørvallann heiminn og sameina allt til Guds ríkis á jørdunni. Um þenna mannkynsins og heimsins Frelsara og þær heilla-tídir, sem med hans komu mundu veitast jardríki, tala allir Spámenn; þess getur einnig Davíd og yfir høfud nærfellt allar þær heilógu bækur, allar í þeim tilgángi ad undirbúa komu Krists og vitna um, jafnvel fyrir þeim sem nustu ættqvíslum, ad hann væri frá Gudi sendur.

Á ýmsum tímum eru þessar heilógu bækur ens Gamla Testamentis ritadar og af ýmislegu innihaldi; en allar vitna þær um Gud. Þær fyrstu eru ad mestu leiti Sagna-bækur, svo sem: þær 5 Mósis-bækur, Jósva's-bók,

Dómaranna-bók, Ruths-bók, bádar Samúels-bækur, bádar Konúngaña-og bádar Kroníku-bækurnar. Þessar innihalda frá oþar um heimsins sköpun, um þá fyrstu menn og um syndaflódid; líka um Gydínganna forfedur og um þjódarinnar ásigkomulag allt til hinnar babýlonisku herleidíngar. Þessum fylgia einnig 3 Sagnabækur, nefnilega: Esrasar, Nehemíasar og Esthers-bók, sem eru þeirra tíma fráságur. Sídan koma skáldlegar ritgjördir, nefnilega: Jobs-bók, Davíds Psaltari, Salómons Ordsqvidir, hans Prédikari og Lofsqvædi. Loksins fylgir Safn af Spámönnunum, fyrst þeir 4 stærri Spámenn: Esajas, Jeremias, Ezechíel og Daníel, og seinast þeir smærri 12: hverra rit eru oll styttri, Hóseas, Jóel, Amos, Obadías, Jónas, Micha, Nahúm, Habakuk, Zephanías, Haggai, Zacharías og Malachías.

## 24. Esras.

Spámannanna skélfilegu hótanir rættust og allteins heit þeirra. Eptir Gyd-

Ínganna 70 ára útlegð í Babýlon, koll-varpaði sá voldugi Cyrus þessu ríki. Hann var þá Konúngur Persalands og gaf Gydíngum leyfi að halda heim aptur til þeirra Föðurlands. Fjöldi þeirra snéri því heim aptur, undir forustu Serúbabels. Að nockrum árum liðnum bygðu Gydíngar upp Musterið á ný og urðu þar til hvattir af Spámönnunum Haggaí og Zacharías. Síðan kom líka sá lögvitri Esras af Leví kynþætti með fleiri Gydínga heim aptur og niðurskipaði öllu, samqvæmt Mósis lögmáli, sem hann gjörþeckti og útlagði fyrir öðrum; því í Babýlon höfðu Gydíngar týnt miklu niður af móðurmáli sínu og gleymt siðum forfeðranna. Því eru menn þeirrar meiníngar, að Esras safnað hafi þeim helgu Ritgjörðum, sem vér nú finnum í Gamla Testamentinu, því eptir hans daga eða hér um bil 450 árum fyrir Krists burð, var eckert nýtt Rit tekið inní þetta heilaga Safn.

25. Ne-

## 25. Nehemias.

Margir af Gydíngum urdu eptir í Babýlon, þegar Persar tóku þar stjórn og nockrir þeirra komust jafnvel til tignar og metorda. Þannig var Spámadurinn Daniel í miklu áliti bædi hjá Babýlonar og Persa Konúngum, en jafnvel þótt margir bædi øfundudu og rægdu hann, vard honum samt óhætt, vegna hans Guds ótta, því sá Almáttugi verndadi hann, svo ad hann heill og óskemmdur komst út úr Ljóna-gryfjunni, í hverja fjandmenn hans med launsvikum, tældu Konúng til ad varpa honum. Þannig vard og Gydínga-stúlka nockur, ad nafni Esther, Drottníng Ahasverusar Persa Konúngs, en þegar uppáhald hans, sá drambláti Haman, vildi tortýna øllum Gydíngum í løndum Konúngs, af því eirhverr þeirra hneigdi sig ecki nógu djúpt og audmjúkt fyrir honum, fékk Esther frelsad fólk sitt frá eydileggíngu, med því ad bidja því líknar hjá Konúngi, sem lét taka sjálfann Haman af lífi. Annar Gydíngur nockurr og rádvandur madur, ad nafni Nehe-

mías, komst í vináttu og uppheſd mikla hjá einum Perſa Konúngi. En er Nehemias ſéck ſregnir um, ad landar hans heima ſætu undirokun af nábúa þjódum og ad enn þá var ecki búid ad gjora hervirki um Stadinn Jerúſalem, bad hann Konúng ſorgbitinn um heimfararleyſi. Konúngur ſetti hann þá Landſtjórnara í Júdæu. En þrátt fyrir öll hreckjabrögd og hótanir óvinanna, lét þeſsi hugprúdi, djarſi, óſérdrægi og rádvandi Födurlands-vinur byggja Jerúſalems varnar-virki og nidurſkipadi þar ſtjórn ſamqvæmt Móſis lögum.

## 26. Makkabearnir.

Hér um bil í 200 ár vóru Gydíngar undir Herradæmi Perſa; ad þeim lidnum urdu þeir þegnar Alexanders Mikla, en eptir hans dauda, vóru þeir ýmiſt undir Sýríanna eda Egyptanna veldi. Einn af þeim ſýriſku Drottnurum, ad nafni Antiochus Epíphanes vildi þvínga Gydínga til ad taka heidin trúarbrögd, en þegar þeir med ſtödugleyndi ſtódu þar á móti, offókti Konúngur þá grimmi-

lega. Nockru sídar lét Guð mann nockurn koma fram af Presta ætt, til frelsis Fodurlandi hans, að nafni Mattathías, sem með 5 sonum sínum bardist vasklega mót fjandmonnum Guðs blessadi svo fylgi þeirra, að þeir frelsudu bædi Fodurlandið og trúarbrogðin, fyrir hvert þeir offrudu lífi og blódi. Af þacklátsemi fyri það, gaf þjódin þeim seinasta bræðranna. Símóni Makkabeus, erfdastiórn í landinu, þared ætt hans, sem nefnduft Makkabear, hafdi frelsað hann frá Sýrianna undirokun.

Vér hofum þeirra manndóms-verk útlistuð í tveimur Sagna-ritum, sem nefnast Makkabeanna bækur, sem teljast með þeim apocryphisku bókum, sem svo nefnast, af því þessar teljast ecki medal þeir a helgu rita, sem sofnud eru í Gamla Testamentinu. Flestar apócryphiskar bækur, svo sem: Tobíasar og Júdiths Segur, Jesú Sírachssonar bók og Spekinnar bók, vyrdast efalaust að vera ritaðar á Makkabeanna dogum, 150 árum eptir Kristsburd. En eptir Malachías, sem lifdi samtída Esraási, birtist enginn Spámadur framar.

Makkabæanna ætt tældist lokfins og spilltist af ofmetnadi; hún tók sér Konúngs nafn og reyndi til að inntaka lönd með herskyldi; en þá sagdi strídslukkan skilid vid hana. Sundurlyndi milli tveggja brædra, hér um 50 árum fyri Krists burd, gjördi enda á Konúngs Stjórninni, svo þeir seinustu urdu, sem glæpamenn, afhöfdadir af þeim voldugu Rómverjum, sem hripsudu valdid til sín yfir Jehóva's fólki.

## 27. Job.

Gamla Testamentisins helztu Fráságur hofum vér nú yfirvegad og sied af þeim, hvörsu Gud í 2000 ár, stýrdi forlögum þessa fólks, medal hvörs hann vildi ad heimsins Frelsari birtast skyldi. Vér höfum þaraf sied augljósustu roksemdir um vísdóm Guds og gædsku, en—ádur enn vér nú hverfum til Fráságna ens Nýa Testamentis, um Endurlausnarans komu í heiminn, hans kénníngar, pínu, dauda og upprisu, viljum vér af Fráságunni um Job, sem í Gamla Testamentinu fylgir nærst á eptir þeim

eginlegu Sagna-bókum, nema ad til-bidja Speki Guds, allteins þá, er hann sendir oss kross og mótlætíngar, þótt vér ecki megnum ad skynja orsakirnar til þeirra.

Job var — segir Ritníngin — gud-hræddur madur, stóraudugur, átti 7 sonu og 3 dætur; hann var auga ens blinda og fótur ens hallta, huggari eckna og fadir fátækra, dýrkadi Gud af audmjúkt hjartans og unnti spekinni. Hann vard því heidradur af allri þjód sinni, Öld-úngar risu upp honum til lotníngar, en Furstinn þagdi, þegar hann taladi. En — á augabragdi breyttist heill hans í mestá volædi. Einhverju sinni þá, er börn hans vóru sofnud til ad halda há-tídlegann burdar-dag ellsta bródur síns, kom madur nockurr til Jobs og sagdi: Uxar plægdu, en ösnur stódu á beit rétt í hjá þeim, en þá komu ræníngjar, felldu verkamenn þína, en rændu qvikfénu á burt; eg aleinn komst undan. En á medan hann svo mælti, kom annar fram og sagdi: eldur féll frá himni og brenndi upp fjárhúsin ásamt hirdurunum; eg einn vard frelsadur. Naumast hafdi þessi

lokid tali sínu, uns hinn þridji kom og sagdi: Ræníngjar gripu úlialda þína, en drápu ſ...k þitt med beittum sverdum; eg einn slapp med lífi. Í því sama kom hinn fjórdi og seinasti, sem sagdi: Synir þínir og dætur sátu gladvær ad máltíd í húsi þíns frumgétna sonar, en hvirfilvindur úr eydimörkinni brast á, kollvarpadi húsinu og mardi börn þín í sundur; eg einn komst undan til ad færa þér þessi tídindi. Bjúgur af ángri reyf Job klædi sín í sundur og klippti skégg sitt — á austurlanda hátt, er sorg bar ad höndum — en tilbad þó Gud og sagdi: „Nakinn kom eg frá módur-lífi, nakinn „fer eg hédan aptur! Drottinn gaf, „Drottinn burttók, vegsamad sé nafn „Drottins!“ Mótlætid hafdi enn þá ekki freistad Jobs til ad syndga, en nú greip hann einhverr hinn skélfilegasti sjúkdómur: ílla ortud kýli þöktu gjörvallann líkham hans, en svo var hann fátækur ordinn, ad einasta lækníngа tilraun hans vard ad skaldra ..fku yfir sár sín. Kona hans frétti hann eptir: hvert hann enn þá trydi á hinn rétláta Gud? „Þú talar“ — sagdi sá gudhræddi Job — „sem

„heimsk kona; ætti eg einúngis að þygg-
„ja hið góða af Guði, en ecki ásamt
„hið óþægilega?" Jafnvel þær stór-
kostlegústu þjáníngar fengu ecki freistað
Jobs til synda, ellegar veikt elsku hans
og traust til Guðs. Um þessar mundir
komu þrír alda-vinir hans til að hugga
hann í eymð hans, en er þeir litu hann
álengdar og þécktust ecki þeckja hann,
tóku þeir að gráta og sátu hjá honum í
7 daga, án þess að mæla orð; því qvøl
hans var yfrið mikil. Eingu að síður
vóru þessir vinir svo grunnhyggnir og
óhollir, að þeir með brigslyrðum bættu
miklu á eymdir hans, uns hann af qvøl-
inni tók að veiklast og qveinaði sárt yfir
sínum þúngu álögum; því vinir hans
héldu: að enginn væri hér á jorðu ófar-
sæll, nema hann með sjálfskapar-vítum
hefði bakað sér sjálfur öðrum þýngri for-
løg og dæmdu þeir því svo hardt og ráng-
snúið um Job. Þessvegna er líka sagt,
að raust Drottins hafi loksins talað til
Jobs í þrumu-veðri og átalið hann
þannig: „þú ert dramblátur af dygð
„þinni og vogar að gánga í rétt gégn
„þeim alvísa náttúrunnar Herra, hve-

„ráð eru óransakanleg og vegir hans ó-
„finnandi." Job kannadist og vid af-
brot sitt, svo Gud fyrirgaf honum þad,
en átaldi vini Jobs, ad þeir med mann-
legri vitsku hefdu þókst skynja Forsjón-
arinnar huldu rádstafanir, en ecki salid
honum, sem þeckir hjörtun, ad fella dóm
þar um. Job vard sídan alheill og
luckusæll, eignadist 10 börn á ný, lifdi
alla æfi gudhræddur og vís og vard há-
aldradur madur.



# Frásögur útdregnar af Nýa Testamentinu:

## I. Heródes Mikli.

Eptir þá babýlonisku herleidíngu vard aldrei framar vart vid ad Gydíngar hneigdust til skurdgoda-dýrkunar; því uppfylling spádómanna hótana vyrdist hafa innrætt þeim óbreytanlega vyrdíngu fyrir Lögmálsins ordum. Samt sem ádur vóru þeir ecki svo rádvandir, sem þeim bar lad vera; margskonar lestir drottnudu medal þeirra og sín trúarbrögd létu þeir framar hafa tillit til útvortis setnínga, svo sem: fórnfæringa, föstu, hreinsunar og fl., enn til elsku til

Guds umfram alla hluti og til náúngans, sem sjálfra þeirra. Einkum vóru nockrir, sem kolludu sig Pharisea — þad er: (þá frábæru) — er héldu mjog uppá útvortis sidvenjur, en vóru þar hjá skynhelgir hræsnarar, sem leitudust eptir munnlofi og undrun fjoldans, en rángfærdu Ritníngarinnar hollu lærdóma med slægvitrum útleggíngum og auka-setníngum. Á gatnamótum og í þeirra Samkundu húsum þuldu þeir lángar bænir, en þegar þeir gáfu olmusur, létu þeir blása í lúdra, svo allir skyldu heyra og hrósa gódverkum þeirra; en heimuglega rændu þeir hús eckna og fodurlausra, ofsóktu saklausa og bakbitu þá, sem vóru þeim betri. Annad félagid nefndi sig Saddúcæa — : þá réttlátu — jafnvel þótt sárfáir þeirra skeyttu svo mjog um þad réttlæti, sem fyrir Gudi gyldir. Þeir stærdu sig þar á móti af dygdum sínum og trúdu ecki ad líf væri til eptir þetta, í hverju gódir skyldu odlast umbun, en vondir refsíngu. Þegar nú þessir blindu leidtogar áttu ad vísa fólki veg, var ecki kyn þó fjoldinn færi villur vega. Vér sinnum því og, ad allskonar lestir, eink-

um dramblæti sameinad bitrasta hatri og hefndargirni vid framandi þjódir, drottnudu á medal Gydínga um þær mundir Jesús, sá fyrirheitni Frelsari, fæddist. Med laungun væntu þeir Konúngs af Davíds kynþætti, hvern Spámennirnir hofdu bodad, en flestir á medal þeirra meintu þad verda mundi jardneskt ríki, er hann stipta ætti, en undiroka og hardlega hegna ollum heidíngjum og gjora Gydínga ad drottnurum gjorvallrar veraldar.

Því dramblátari, sem Gydíngar vóru, þess meiri orsøk hofdu þeir til haturs vid Rómverja, sem hofdu svipt þá bædi frjálsrædi og lypt útlendíngi, er ásamt var grimmasti hardstjóri, upp á Davíds veldis-stól. Heródes, sem vegna hans sérlegu yfirburda, var auknefndur hinn Mikli, var af Kejsara Augústusi settur Konúngur Gydíngalands, þó hann væri af Esaúsar kynþætti. Med smjadri, ofríki og kjænsku tókst Heródesi ad ná uppheffd og verda þar Landsstjórnari og med tortryggilegri grimmd reyndi hann til ad vernda

þetta rænda veldi sitt. Makkabeanna ætt eyddi hann oldúngis, en margar Þúsundir þegna sinna lét hann afhøfda; ecki heldur hlífdi hann konu sinni, hverja hann þó elskadi, né þremur sonum sínum, er falla hlutu, sem offur fyrir ótta hans og hardstjórn. Svo dýrt keypti hann þad auma nafn, ad heita: hinn Mikli; hann píndist sífeldt af ángist og óróseini, alltaf qvalinn af samvitsku nøgun og vard ad sídustu skéifileg fæla ættar sinnar, en hatadur af þeanum sínum og eptirkomandi alda vidbjódur. Eptir dauda hans skipti Augústus Keisari ríkinu milli þriggja sona hans, af hverjum Archelaus fécl Júdæu og Samaríu, en Heródes Antipas Galíleu. Bádir þeser vóru vondir, svo Rómverjar loksins steyptu þeim frá vøldum, en létu sídan Lands-høfdíngja stjórna ríkinu, hverjum Høfud-presturinn og Rádid, sem vóru Prestar og Skriftlærdir urdu hlýdni ad sýna. Þridji sonur Heródesar hafdi ad eins lítid fylki til forráda, hverju hann til daudadags stýrdi med réttvísi og hygginndum.

2. Jesú

## 2. Jesú Fæding.

Á medal þeirra, sem med gudhræddri eptirlaungun væntu Frelsarans komu, eins og Spámennirnir hofdu fyrisagt, var rádvønd stúlka nockur, ad nafni María, af Davíds kynþætti. Hún átti heima í Stadnum Nazareth í Galíleu og var trúlofud timburmanni nockrum, er Jóseph hét, af somu ætt. Hún vard þá einmidt sú, er Gud hafdi kjorid til ad verda módir Frelsarans. Næstum því undir lok stjórnar Heródesar Mikla, vard Maríu bodad af Engli Drottins: ad hún skyldi son fæda og hann skyldi hún nefna Jesús — þad er: Frelsarinn — því hann skyldi vera sonur ens Hæsta og drottna eilíflega í ríki Guds. Undrunarlega nóg vard svo til ad vilja, ad enn þótt Foreldrar Jesú byggju í Nazareth, fæddist hann samt, eins og Spámadurinn Michas hafdi fyrirsagt (í 5. Kap.) í Stadnum Bethlehem, í hverjum Davíd Konúngur var borinn. Því um þær mundir vard þad bodord Keisarans útgéfid, ad allir Gyd-

íngar safnast skyldu, hverr til sinnar ættjardar, til ad verda skrifadir þar í skatt. Jóseph og María urdu því ad fara til Bethlehems, en þared bær þessi var lítill, urdu þau ad þyggja herbergi í fjósi nockru, hvar qvikfé var hýst. Á þeim stad fæddist þá Frelsari heimsins og vard reifadur dulum, en Englar Drottins kunngjördu med gudlegum lofsaungum, komu hans í heiminn smalamonnum þeim, sem geymdu hjardir sínar þar um pláts, enda urdu þessir þeir fyrstu, er foanudu þessu nýfædda barni, sem Syni Guds. Sídan vidurkénndu tvø gudhrædd gamalmenni, Símon og Anna, þad nýfædda barn, ad vera þann fyrirheitna Frelsara heimsins. En, litlu sídar komu jafnvel þrír Spekíngar frá Austurløndum til Jerúsalems, til ad frétta þar, hvar sá nýfæddi Messías væri, því sjed høfdu þeir stjørnu nockra, sem þeir meintu teikna mundi fædíngu hans. Heródes komst á snodir um þetta, kalladi Rádid saman í hasti og spurdi: hvar helzt Messías mundi ad finna? Þad ansadi: ad eptir spádómi Michæsar Spámanns, ætti hann

ad fædast í Bethlehem. Þángad sendi því sá brogdótti Heródes Vitríngana, med bón um: ad þegar þeir hefdu barnid fundid, skyldu þeir géfa honum það til vitundar, svo hann einnig fengi vottad þeim komanda Frelsara lotníngu sína. En — undireins og Spekíngarnir hofdu í Bethlehem fundid barnid Jesús og fært því dýrmæta skénki, urdu þeir í draumi advaradir og fóru því adra leid heim til sín aptur, en Jóseph og María flýdu eptir álíka advorun med barnid til Egyptalands. Þegar nú Heródes vard þess vísari, ad Spekíngarnir hofdu gjort svik hans ad engu, gaf hann út þá grimdarfullu skipun: ad drepa nidur öll börn í Bethlehem ýngri enn tvævetur, í fávísri von um, þanninn ad fá rádid af dogum þetta væntanlega Konúngs efni af ætt Davíds.

## 3. Jóhannes Skírari.

Hálfu ári fyrir Krists burd fæddist Jóhannes, hvern Gud hafdi útvalid til ad greida veg fyrir Jesú og boda Gydíngum komu hans. Fadir hans var af

Presta-ættum, en módir hans frændkona Maríu módur Jesú. Þegar Jóhannes var þrítugur ad aldri, gaf hann sig fram, sem Frædari fólksins, líkt og þeir fornu Spámenn. Klædnadur hans var grófunnin kápa af úlfalda-hári og ólar-belti um midtid. Hann lifdi á Engisprettum*) og skógar-hunángi. Fjöldi mikill manna þusti til hans og héldu sig sjá þar Elías eda einhvern annann af þeim gömlu Spámönnum, sem hann var, jafnvel Stjórnar-rádid sjálft lét spyrja hann ad: hvert hann ecki væri Messías, ellegar þá einhverr af gömlu Spámönnunum? En — hann svaradi þeim: ad hann einúngis væri sú raust, sem Spámennirnir hefdu um mælt, ad greida skyldi veg Drottni, því ertir hann mundi honum ædri framkoma, hvers skóþvengi

*) Engisprettur er skorqvikinda tegund, græn og gráleit, á músar stærd, med litlum vængjum og læ:um, lifir bædi á votengjum og í pælum, um mörg útlönd og Austurlönd almenn, jafnvel austur á Norvegi þeckt ad vitni Ströms og vída ellin.

hann ecki væri verdugur ad leysa. Adal-inntakid af kénníngum Jóhannesar var þetta: ad allir skyldu þá strax betra sig, þvíad himnaríki — þad er: Jesú trúarbragda innleidsla — væri nálæg. „Oxin" — sagdi hann — „er þegar „sett vid rót á hverju tré, svo ad hvert „þad tré, sem ecki ber gódann ávoxt, „skuli höggvast upp og varpast í eld." Alla þá, sem trúdu ordum hans, lét hann ofan fara í Jórdanar-fljót, hvar hann skírdi þá, til vitnis um, ad þeir vildu vidurkénna Messías og snúa aptur frá syndugri breytni.

Þegar Jóhannes hafdi rúmlega í hálft ár þannig undirbúid komu Krists, sókti Jesús sjálfur fund hans og beiddist skírnar. Jóhannes taldist fyrst undan því og sagdi: „eg hefi öllu meiri „þörf ad skírast af þér, en þú kémur þó „til mín?" Jesús svaradi: „Sá er „vilji Guds." Jóhannes skírdi hann þessvegna, en þegar Lausnarinn steig upp úr vatninu, sjá! þá steig Andi Guds ofan frá himnum í dúfu líkíngu og stadnæmdist yfir honum, en raust frá þeim Hærsta vottadi fyrir öllum: „Þessi er

„ ſá elſkulegi Sonur minn, á hverjum eg
„ heſi velþócknun.“

Eptir þad Jeſús var ſkírdur, héldt ſamt Jóhannes enn þá áfram um hríd ad ſkíra og kénna, enn þótt hann ávalt víſadi ollum til Jeſú, ſem þeſs,-er væri af Gudi útſendur, ſem þeſs, er bera ætti allar ſyndir heimſins og þeſs, hvern hann audmjúkur vidurkénndi ad vera allri mannlegri tign ædri. Hann átaldi med alvorugéfni leſti enna voldugu og Skriftlærdu og eins alþýdunnar og þá Heródes hafdi kúgad einn brædra ſinna til ad ſkilja ſig vid egin konu ſína, Heródías, hverja hann ſjálfur ſídan ektadi, ákjærdi Jóhannes án manngreinar álits, einnig þá rángsleitni Furſtans. Heródías brann af heipt út af þeſſum adfinníngum og féck·leidt þenna breiſka Konúng til ad láta varpa Jóhanneſi í fángelſi; þó vard heindargirni hennar og drambi ecki fullnægt, med odru enn blódi þeſſa ſaklauſa manns.

Á hátíd einhverri vid hird Heródeſar, danſadi dóttir Heródíaſar fyrir Konúngi og fannſt honum ſvo mikid til dansleiks hennar, ad hann hét ad veita heñi

hvad helzt, sem hún vildi uppástínga, þó það svo yrdi helftin af ríki hans. Þessi únga Furstadóttir var efablandin um, hvers hún helzt beidast ætti og rádgadist því um það vid módur sína, sem strax baud henni ad óska, ad höfud Jóhannesar yrdi sér fært á fati. Naudugur samþyckti Heródes svo grimma skipun, en hans skammarlega drambsemi lét hañ þó heldur kjósa ad drepa saklausann mann, enn gánga á gálaust heit sitt. Þannig lét Jóhannes líf sitt, sem sannleikans vottur.

## 4. Jesús, sem barn í Musterinu.

Þegar Foreldrar Jesú fréttu, ad Heródes Mikli andadur væri, snéru þeir aptur til Gydíngalands; en af ótta fyrir þeim grimma Archelaus, vogudu þeir ecki ad taka sér bólfestu í Bethlehem og fóru því til Nazareths í Galíleu, hvar þeir ádur bjuggu. Í þessu fjærlæga og sokum fávitsku mest vanvyrdta héradi Gydíngalands, uppólst Jesús hjá sínum rádvondu Foreldrum, allt ad þrítugs aldri. En heilög Ritn=

íng inniheldur um þenna part Jesú lífs, einúngis eptirfylgjandi Fráságu:

Þá Jésús var 12 ára gamall, fór hann, ásamt Foreldrum sínum til Jerúsalems til Páska hátídarhalds, ad sidvenju þeirra. En er hátídinni var lokid og þeir fóru heimleidis aptur, vard barnid eptir, þeim Jóseph og Maríu óvitandi, því þau héldu ad Jesús farinn væri med einhverjum samferdar-mönnum þeirra heimleidis. En er þeir allir vóru saman komnir fyrir utan Jerúsalem qvöldid eptir fyrsta áfángann og enginn af frændum þeirra eda kunníngjum vissi neitt um Jesús, snéru þeir aptur til Jerúsalems til þess ad leita hans þar. Eptir þrjá daga fundu þeir hann sitjandi í Musterinu, midt á milli kénnifedranna, á hverja hann hlýddi og spurdi þá, en allir, sem heyrdu til hans, furdudu sig yfir hans skynuga tali. Sjálfir Foreldrar Jesú urdu hissa vid, ad finna hann þar, svo ad módir hans jafnvel sagdi vid hann: Sonur minn! því breyttir þú svona vid ockur? Fadir þinn og eg höfum leitad þín ángurvær. En þó Jesús, sem Guds Sonur, væri haf-

inn uppyfir alla menn, sýndi hann þó Foreldrum sínum undirgéfni og ansadi einúngis blídlega: „Því leitudud þid „ad mér? -eda vissud þid ecki ad mér „ber ad gjöra verk Fødur míns?" Þetta skildu Foreldrarnir ecki. Samt vard hann þeim samferda og tók þroska, eins og ad aldri í vísdómi og náð bædi hjá Gudi og mønnum. Hafi nú sjálfur Jesús audsýnt svo mikla vyrdíngu, blídlyndi og hlýdni sínum jardnesku Foreldrum, hversu miklu framar bæri oss ad elska og heidra vora, sem Gud hafdi þegar í Mósis Løgmáli bodid.

## 5. Jesús, sem Frædari.

Þegar Jesús var þrínær þrítugur, lét hann Jóhannes skíra sig og kom þá fram, sem sá, af Spámønnunum bodadi heimsins Frelsari, er stipta skyldi Guds ríki á jørdunni.

Af Jóhannesi Skírara var fólkid þegar vakid til eptirþánka og enn fremur mátti þad uppvekjast vid Jesú lærdóma og kraptaverk til enn meiri lotníngar og undrunar. Adal inntak Jesú kénnínga

var einkum þetta: „Guð er Andi, því ega þeir, sem hann tilbidja, að tilbidja hann í anda og sannleika. Svo elskadi Guð heiminn, að hann útgaf sinn eingétinn Son til þess, að hverr sá, sem á hann trúir, ecki skuli týnast, heldur oðlast eilíft líf. En — það er eilíft líf — það er: leidir til eilífrar sælu — að hverr einn trúi á einann og sannan Guð og þann, sem hañ útsendi, Jesúm Krist; því hann og Fadirinn eru eitt. En — þó skal ecki hverr sá, sem kallar Jesúm Herra, fá inngaungu í Guðs ríki, heldur sá, sem gjörir vilja Foðursins, sem á himnum er. — Þú átt að elska Guð af ollu hjarta þínu og frammyfir alla hluti, því, sú er fyrsta og mikilvægasta skyldan, en onnur adal-skyldan er þessari lík: elska náúnga þinn eins og sjálfann þig. — Eckert gagnar það neinum manni, þó hann eignaſt sengi gjorvallann heiminn, ef hann týnir sálu sinni. Því, sá tími kémur, að Guðs Sonur mun dæma bædi lifendur og dauda og þá munu þeir, sem gott hafa gjort hljóta eilífa sæiu, en hinir, sem ílla breyttu, eilífa hegníngu. Þessvegna skulum vér kappkosta að lík-

jast vorum himneska Fødur, sem lætur sína sól upprenna yfir vonda og góda og rigna yfir réttláta og ránaláta; því ecki fellur einstakur titlíngur á jördu án hans vilja, en þegar vér leitum hans adstodar, vill hann hjálpa vanmætti vorum og af nád sinni fyrirgéfa oss vorar syndir."

Yfir høfud vóru Jesú kénníngar optastnær innifaldar í stuttum greinum, sem audveldt var ad hugfesta og sem med fáum, en skarpvitrum orda tiltækjum inniprentudu mikilvægust sannindi, ellegar hann framsetti þau í fögrum frásøgum, mindudum af því, sem venjulegast framkémur í daglegu lífi — Dæmisøgum — svo ad hann þannig því heldur fengi áheyrslu fólksins og vakid þess eptirþánka. Margir þustu því til þessa guddómlega Frædara til ad hlusta á hans lífkroptugu rædur, sem vóru svo yfrid frábleitar rædum þeirra Vitrínga og Skriftlærdra á þeim døgum. Ecki einúngis í Forgardi Musterisins og í Samkunduhúsum Gydínganna kénndi Jesús miklum fjølda manna, sem líktust villuráfandi saudum án hirdirs. Allteins vid fjalla-

rætur, sjáfar-strendur og í eydimorku hljómadi rodd hans til huggunar, upphvatníngar og reglu fyrir hvern þann, sem med audmjúku og trúudu hjarta leitadi hans, sem sannleikans og lífsins uppsprettu. Optar enn einusinni hlaut Jesús og þegar hann vid sjáfar-strendur kénndi fólkinu ad fara útá nálæg skip, vegna mannfjöldans og þadan boda sinn lærdóm. Einn af þeim lærdu og ædri Pharíseum, ad nafni Níkódemus, sem var jafnvel medlimur Stjórnar-rádsins, kom vegna ótta vid adra, á náttarþeli til Jesú, til þess ad frædast af honum, en þegar Rádid nockru seinna gjordi út flugumenn til ad handtaka Jesúm, þegar hann í Forgardi Musterisins var ad kénna fólkinu, hurfu þessir útsendu svo búnir aptur, yfirbugadir af hans orda krapti; „því" — sogdu þeir — „enginn madur hefir nockurntíma talad honum líkt."

Med hógværd og blídlyndi átaldi Jesús bresti sinna hreinskilnu Lærisveina og sýndi þeim med ordum og egin eptirdæmi, hvernig þeir breyta skyldu. „Lærid af mér" — sagdi hann med ollum rétti — „því eg er hógvær og af hjarta

„lítil-látur.“ Þegar þeir krefdu, ad hann skyldi láta eld falla ofan frá himni til ad eydileggja nockra, sem honum hefdu úthýst, svaradi Jesús: „Mannsins „Sonur er ecki á jardríki kominn til ad „tortýna, heldur til ad farsæla.“ Og, þegar þeir mœttust um, hverr þeirra mestur væri, sýndi Jesús þeim úngbarn og sagdi: „nema þér verdid eins og born „(audnijúkir og elskulegir), fáid þér ecki „komist í Guds ríki.“ Þolgódur umbar Jesús breiskleika Lærisveina sinna, sem opt misskildu kénníngar hans og þó enn optar létu óttafullt vantraust ráda fyrir sér og nærstum ætíd létu sér hugfast jardneskt veldi og álit; „því“ — sagdi Jesús, undir burtfør sína — „eins og „Fadirinn elskar mig, hefi eg elskad ydur; ecki nefni eg ydur þjóna mína, „heldur vini; en eg útvaldi ydur til þess, „ad þér skyldud ávøxt bera.“ Þar á móti straffadi Jesús, med strángri alvørugéfni þá skynhelgu Pharísea og Skriftlærdu, sem forherdtir vóru í syndum þeirra, tældu fólkid og byrgdu eyru sín fyrir sannleiksins raustu, já! jafnvel ofsóktu Jesúm og bakbitu hann, þvert

á mót betri sannfæríngu þeirra. „Varist" — sagdi Jesús vid fólkid — „ad líkjast Pharíseum og Skriftlærdum; því þeir eru líkir kolkudum grøfum, fögrum utan, en innvortis fullum af súa og eitri. Eins og úlfar í saudar-klædum, þjá þeir fólkid med þúngbærum álogum, sem eru bodord manna, en ecki vilji Guds, en leynilega ræna þeir eckjur og fodurleysíngja. Vej sé hræsnurum þeim! því ecki fá þeir komist hjá eilífri hegníngu."

Þvílíkur var Jesús, sem Frædari, þessvegna sagdi hann og: „komid þér „allir til mín, sem erud þreyttir og und„irokadir, eg skal unna ydur hvíldar. „Ok mitt er þarflegt og byrdi mín er „létt. Mín kénníng er ecki mín, heldur „hans, sem sendi mig og hverr, sem vill „framqvæma hans vilja, mun komast „ad raun um, hvert heldur þessi lærdóm„ur er frá Gudi kominn, ellegar eg tala „af sjálfum mér." Því sagdi líka einn hans helzti Lærisveinn, Pétur, þegar Jesús spurdi hann: hvert hann vildi, eins og margir adrir, yfirgéfa hann? af því þeir skildu ecki hvad hann sagdi:

„Herra! hvert egum vér ad fara? þú „hefir efalaust ord eilífs lífs." En þad, sem Pétur þá sagdi, undirtekur med honum hverr og einn trúadur kristinn madur um Lausnarans kénníngu, sem í heilagri Ritníngu enn þá talar hid sama til vor allra.

## 6. Jesú Dæmisögur.

### a) Akuryrkju=madurinn.

Akuryrkjumadur nockurr géck út til ad sá, en þegar hann sádi, féll nockud af korninu í.goturnar og annadhvert tródst nidur eda vard uppetid af fuglum lopts=ins; sumt féll í grýtta jord, hvar jarr=vegur var lítill, spratt ad vísu fljótt upp, þared þad lá ofarlega, en vid sólskin skrælnati þad upp og visnadi, af því þad vantadi rótfestu og vidurværi. Nockud af sædinu féll og á medal þyrna, þeir spruttu upp med því og kjæfdu þad bráð=um nidur; en nockud féll í góda jord og bar ávöxt, sumt hundradfaldann, sumt sextugfaldann og sumt þrítugfaldann.

Hverr, sem hefir eyru ad heyra med, hann heyri!

Sjálfur Jesús hefir útlagt oss þessa dæmisögu þannig: þegar einhverr heyrir eda les mín ord og skilur þau ecki, kémur sá vondi og tekur á burt þad góda sædi, er sád var í þess manns hjarta og afmálast þetta med sædinu, sem á götunnar fjell. Ad sumt þar á móti fjell í grýtta jörd, þýdir: ad margir heyri ordid og medtaki þad feginsamlega, en þad festi ecki rætur í hjarta þeirra, haldist því vid ad eins um stundarsakir, svo þeir á mótlætis og ofsókna tímum leidist strax afvega. Þad, sem sádist á medal þyrna, þýdi: ad margir heyri og medtaki kénninguna, en girnd til audæfa og jardneskra gæda kjæfi hana nidur hjá þeim, svo hún engann ávöxt beri. Loksins þýdi þad, sem í góda jord fjell, kénninguna, þegar hún ecki einúngis verdur heyrd og skilin, heldur ber ávöxt, sem eptir ýmislegum gáfum og kjorum manna verdur þó mis-mikill. Sjálfur Jesús er því Akuryrkju-madurinn, kénning hans er útdreifda sædid, en hans margvíslegu tilheyrendur, til dæmis: Phari-

seer, fólkið, Júdas og Læriſveinarnir, teiknaſt þar með þeim misjofnu jarðar tegundum og yfir hǫfuð má í þeſſari dæmiſegu ſkoða afmáiun verka ſérhvers Fræðara, ſem leitaſt við að ſá gagnlegu vísdóms ſæði í úngmenna hjörtu, í von um, að það einhverntíma bera muni dygdanna fogru ávexti. Sá gáiauſi og hirðulítli, ſá lausſyndi og vorótti Læriſveinn, gjörbar allá von hans og ónýtir alla hans fyrirhofn.

## b) Sá góðhjartaði Samaritan.

Skriftlærður maður nockurr kom til Jeſú og ſpurði hann — án efa til þeſs, að láta ſlægvitſku ſína í ljóſi — hverſu þeim bæri að hegða ſér, ſem vildi ſáluhólpinn verða? Jeſús anſaði honum: „hvað er „þar um boðið í Móſis Logmáli?“ — „Þú átt að elſka Guð af ollu hjarta „þínu“ — ſagði hinn Skriftlærði — „og „náúnga þinn, ſem ſjálfann þig.“ — „Réttu ſvaraðir þú til“ — anſaði Jeſús — „breyttu ſvo og þá munt þú hólpinn verða.“ Sá Skriftlærði fann ofur vel vanmætti ſitt til uppfyllíngar þeſſara

laga boda, en var þó um of stórlátur til ad vidurkénna veikleika sinn, leitadi því undanbragda og sagdi: „Já! hverr „er þá náúngi minn?" en Jesús sagdi honum eptirfylgjandi Dæmisögu:

Madur nockurr ferdadist frá Jerú-s..lem ofan til Jerichó, en vard yfirfall-inn af ræníngjum, sem rændu hann klæd-um og bördu hann, géngu sídan á burt og skildu hann þar hálfdaudann eptir. En af hendíngu ferdadist Prestur nock-urr sama veg, leit þennann aumíngja, en héldt áfram ferd sinni; allieins fórst Levíta nockrum, er fór hinn sama veg, kom allnærri þeim lemstrada, sá hann, en fór framhjá honum. Eptir hann bar þar ad samverskann ferdamann, sem leit hann og aumkadi sig yfir hann innilega, géck ad honum, þvodi sár hans med olíu og víni og batt um þau, lypti honum sídan uppá sinn eginn reidskjót, flutti hann til mannabygda og hjúkradi hon-um vel. Daginn eptir, er hann héldt áfram lengra, tók hann upp tvo pen-ínga, féck húsrádandanum þá og mælti: hjúkradu honum vel, en kostir þú meiru

til enn þessu, skal eg borga þèr það, þeg-
ar eg kém hèr við aptur.

„Hvað vyrðist þér nú?" spurði Jesús þaũ Skriftlærða — „hverr þeirra „þriggja reyndist náúngi þessa manns, „sem ræníngjar misþyrmt höfðu?" Sá Skriftlærði ansaði: „sá, sem gjörði „miskunar-verkið á honum." Jesús sagði: „breytlú þá framvegis honum líkt." Hverr, sem er í neyð og skorti staddur og sem vér megnum að bjarga, er bróðir vor, af hvörri helzt þjóð, stètt eða trúarbrögðum, sem hann er, því hverr og einn maður er vor náúngi, sem oss ber að elska.

## c) Sá miskunarlausi Samþjón.

Einhverntíma spurði Pétur Lausnarann að: hversu opt hann ætti að fyrir-géfa náúnga sínum? eða: hvert ecki mundi komið nóg, þegar honum væri 7 sinnum fyrirgéfið? „Onei!" — ans-aði Jesús — ecki 7 sinnum, heldur 7 sinnum 70 sinnum, en til þess enn fram-ar að innræta Lærisveinum sínum skyld-una, ætíð að vera sáttgjarnir, (þ. e:

fúsir til ad fyrirgéfa sérhverja mótgjörd eda rángsleitni) sagdi hann þeim svo látandi dæmisögu:

Fursti nockurr héldt einhverju sinni skulda reikníng vid þjóna sína; kom þá einn fyrir hánn, sem átti ad gjalda honum 10,000 Talenta *). Þar hann nú eckert hafdi til borgunar, baud Furstinn, ad fornaldar venju, ad selja hann, ásamt konu, börnum og öllu því hann ætti. Þjóninn féll honum til fóta og mælti: haf þolinmædi vid mig, eg skal borga þér alltsaman! þá aumkadist Furstinn innilega yfir hann, lét hann lausann og gaf honum upp alla skuldina. Þjóninn géck því á burt, en mætti í sama bili einum af samþjónum sínum, sem átti honum ad gjalda 100 penínga **).

*) 1 Talent er hérumbil 750 rdlr. kúr. eptir vorri mynt, og skuldin eptir því 7,610,000 rdlr (7 milliónir, sexhundrud og tíu þúsundir ríkisdala.)

**) Hverr peníngur er hér um 12 skild. í danskri kúrant mynt. (Sjá Birchs Gamle og Nye Testamentes Historie, 4de Udgave 1798, Pag. 402—3.)

hann sama handtók hann, greip fyrir verkar honum og sagdi: gialdtu mér skuldina, sem-eg á hjá þér! Þá varpadi sambjóninn sér flötum ad fótum hans og mælti: hafdu þolinmædi vid mig, skal eg þá borga þér alltsaman. En hann vildi engann frest géfa, heldur lét snara honum í fángelsi, uns hann borgad hafdi skuld sína. Furstinn komst loksins ad þessari breytni hans, lét kalla hann fyri sig og sagdi: þú, vondi þjón! alla þína skuld gaf eg þér upp, af því þú beiddir mig vægdar; áttir þú þá ecki ad vera miskunsamur vid sambjón þinn, eins og eg var þér mildur? Furstinn framseldi hann því til hegníngar. Eins mun ydar himneski Fadir vid ydur breyta, þegar þér ecki af hjarta fyrirgéfid bródur ydar hans yfirsjónir vid ydur.

## d) Dómarinn og Eckjan.

Í einhverjum stad var Dómari sá, er meira matti gunst og gjafir enn réttvísi. En fátæk eckja nockur var í sama stad, sem vard fyrir órétti af vondum mönnum. Hún fór því á Dómarans fund

og beiddi hann adstodar, en hann daufheyrdist vid hennar kjærumálum. Hún hjeldt samt þrábeidni sinni fram vid hañ um ásjá, uns hann um sídir lét leidast til ad líta á mál hennar, ecki svo af því, ad honum bæri svo ad gjora, heldur til ad fríast frá lengri þrábeidni hennar. Fávíslega breytir samt sá, er stælir eptir þvílíkum Dómara, — en heimskur er líka hinn, sem vonar med bænum sínum ad fá umbreytt Guds alvísu rádstofun; þar á mót ákallar sá rádvandi madur Gud med fulltrausti, því hann vidurkénnir, ad sá Alvísi fyrirfram veit hvad honum vel haggar.

## e) Verkamennirnir í Víngardinum.

Einhverju sinni spurdi Pétur Jesús: hver laun Lærisveinar hans sá mundu, fyrir þad þeir yfirgéfid hefdu allt og fylgt honum? Jesús ansadi: „ad „hverr sá, sem yfirgéfid hefdi ætt sína „og eignir til ad fylgja sér, mundi fá „hundradfold laun í eilífu lífi.“ Til þess ad Lærisveinarnir ecki samt hugsa skyldu, ad sá, sem géfur út eignir ellegar

líf sitt sannleikans og réttvísinnar vegna, egi þar fyrir laun af Gudi skilin, sagdi hann þessa Dæmisögu:

Madur nockurr, sem átti víngard, géck út sneña morguns til ad leigja sér verkamenn; en þegar þeir vóru ásáttir ordnir vid hann um daglaunin, sendi hañ þá til vinnu í víngardinum. Um 3ju stundu — kluckan 9 — géck hann út aptur og leit nockra daglauna-menn standa á torginu adgjördalausa og mælti: farid þér líka út í víngard minn og mun eg géfa ydur hvad réttvíst er; þeir fóru svo þángad. Um 6tu og 9du stundu géck hann ennþá út og gjördi sama. Loksins géck hann út um 11tu stundu og fann ennþá nockra standa á torginu ydjulausa og mælti: því standid þér hérna allann daginn verklausir? Þeir svorudu: af því oss baudst engin kaupavinna. Hann sagdi þá: farid þér líka út í víngard minn og skal eg géfa ydur hvad réttvíst er. Þegar nú qvöldid kom, sagdi víngards Herrann vid Rádsmann sinn: kalladu á verkamennina og gjaldtú þeim kaupid, en byrjadú á þeim seinustu. Nú komu

þeir, sem leigdir vóru um 11tu stundu; og fékk hverr þeirra full daglaun; allteins hinir. En er þeir fyrstu komu fram, sem leigdir vóru um dagmála bil, væntu þeir eptir ad fá meira kaup, en hverr þeirra medtók sín áqvordudu daglaun. Þá tóku þeir ad mogla gégn víngards Herranum og sogdu: þessir seinustu hafa unnid einúngis um eina stund, þó hefir þú gjort þá jafna ockur, sem borid hofum hita og þúnga dagsins. En hann svaradi þeim: Vinir! eckert rángt gjori eg ydur; erum vér ecki ásáttir ordnir um áqvedin daglaun? þín tekur þú, þau bera þér; en eg vil allteins gjalda þeim, er seinast kom, sem þér; eda, á eg ecki med, ad gjora af mínu hvad helzt eg vil? kannské þér misliki ad eg gjori odrum gott?

Þessi frásaga varar oss einúngis vid þeim ljóta lesti, Ofundinni, sem er Sjálfselskunnar lángversta dóttir og módir til skammarlegustu glæpa (Kain, Saul); en hún minnir oss líka á þad, er Jesús ségir á odrum stad: „Þegar þér gjorid „þad, sem skyldan býdur ad gjora, þá „segid: vér erum ónýtir þjónar! því þad „eina gjordum vér, sem skyldan baud

„oss.“ En — vér megnum ecki svo mikid, sem ad fullnægja skyldum vorum, því sídur hæfir oss til verdlauna ad telja, þótt vér, med adstod-Guds, fremja kunnum eitthvad gott. Vér hofum því engann rétt til ad beidast launa fyrir þad af Gudi, heldur þyggjum vér sérhvad gott af hans gódgjornu hendi, sem óverdskuldada gjof. Allrasízt fær, jafnvel sá dygdugasti, krafist, þó hann leitist vid ad fylla skyldu sína, ad sér skuli fyri þad vel vegna hér á jordu. Samvitsku fridur vid Gud og sjálfann sig, eru þau daglaun, sem Gud hefir ætlad oss; en þau odlast hverr sá, er dyggilega vinnur í víngardi Drottins.

## f) Verdslunar Penkngarnir.

Herramadur nockurr ásetti einhverju sinni ad ferdast utanlands, en ádur enn hann fór af stad, kalladi hann þjóna sína fyrir og fékk þeim mikid af fé sínu til forráda. Einum fékk hann 5 Talent*), odrum a



*) Sjá Skíringar-grein á bls. 118.

og þeim þridja 1, allt eptir því, sem hann áleit hvern þeirra hæfann til og héldt síðan á burt. Sá, sem fengid hafdi 5 Talent, fór og verdsladi med þeim peníngum, uns hann hafdi unnid á þeim önnur 5. Allteins fór hinn ad, sem fengid hafdi 2 Talent; en sá þridji, sem fékk einúngis 1 Talent, gékk á burt, gróf því holu í jörd og geymdi í henni láns-fé síns Herra. Laungu þar eptir kom Herra þessara þjóna heim aptur og krafdi þá reiknings; kom þá sá fyrir, sem fengid hafdi 5 Talent, lagdi fram þau unnu 5. ásamt hinum og mælti: Herra! þú fékkst mér í hendur 5. Talent, hana! eg fékk unnid önnur 5 á þeim. Þá ansadi hans Herra til: vel er áhaldid af þér, sem gódum og trúlyndum þjóni, fyrst þú fórst svo trúlega med þetta litla, mun eg setja þig yfir mikid; fardú því inn til fagnadar med Herra þínum. Allteins dádist Herrann ad hinum, sem unnid hafdi 2 Talentin. En — þá kom og sá þridji fram, sem fengid hafdi einúngis 1 Talent og sagdi: Herra! eg þeckti þig vera hardskiptinn mann, því óttadist eg og gróf penínga þína í jörd; hana! hérna eru

þeir nú aptur! Honum ansadi Herrañ: Þú, vondi og lati þjón! fyrst þú þecktir mig mann hardskiptinn, áttir þú því heldur ad verja svo peníngum mínum, ad eg nú hefdi fengid þá aptur med rentum. Takid því þad eina Talent af honum og fáid þeim í hendur, sem þau 10 hefir; því þeim, sem hefir, honum skal géfast, en frá þeim, sem ecki hefir, skal jafnvel taka þad litla, sem hann þegid hefir. Kastid því þessum ónýta þjóni út hédan þángad, sem myrkur og vein er fyrir.

Öllum oss hefir Skaparinn veitt margvísleg efni og ýmisleg tækifæri til ad brúka þau. Sá lati og hinn, sem eydir lífinu í glensi og munadi, breytir þeim þjóni líkt, sem gróf peninga Herra síns í jörd og álík hegníng er honum vís; hans gáfur dofna, svo ad hann óhæfur verdur til vistarveru med Gudi.

## g) Pharísearinn og Tollheimtu-madurinn.

Vid nockra, sem reiddu sig á egin dygd sína, sagdi Jesús einhverju sinni: Tveir menn géngu upp í Musterid til

bænagjörda; annar var Pharíseari, en hinn Tollheimtumadur. Pharísearinn stód einstakur og bad þannig: Gud! eg þacka þér, ad eg er ecki eins og sumir ménn adrir, ræníngjar, rángsleitnir, sækérar, ellegar þessum Tollheimtumanni líkur; því eg fasta tvisvar í viku og géf út tíundir af öllu, sem eg á. Tollheimtumadurinn þar á mót stód lángt í burtu og vogadi ecki ad lypta augum sínum upp til himins, heldur bardi sér á brjóst og sagdi: Gud sé mér aumum syndara miskunsamur! Þad segi eg ydur satt — mælti Jesús — ad þessi Tollheimtumadur var hinum betri og Gudi þóknanlegri. Því hverr, sem sjálfann sig upphefur, skal nidurlægjast, en hverr sig audmýkir, skal upphafinn verda.

## h) Sá týndi og aptur fundni Sonur.

Pharísearnir litu til þess óhýru auga, ad Jesús umgéckst Tollheimtumenn og umkomulítid fólk vingjarnlega, þar sem dramblæti þeirra jafnan leit á þad fólk

med meanri vanvyrdu. Jesús seiddi þeim því syrir sjónir med dæmisøgu, hversu rángt þeir hefdu fyrir sér í því. „Þegar" — sagdi hann — „einhverr á 100 saudi, en einn af þeim týnist á afrétti, mun hann þá ecki yfirgéfa þá 99 og leita þess eina, sem glatadist? En fái hann þann fundid, mun hann þá ecki med ánægju bera þann saud heim til sín, en kalla til vini sína og nágranna og segia: samglediist mér, því eg hefi heimt aptur saudinn, sem týndist Svo mun og verda fognudur á himni yfir-sér-hverjum syndugum, sem betrar sig; því Gud vill ecki syndarans dauda, heldur ad hann snúi sér og lifi (þad er: verdi farsæll)."

Líka sagdi Jesús þeim adra dæmisøgu: „Madur nockurr átti 2 sonu. Sá ýngri mælti vid Fodur sinn: Fadir minn! Láttu mig fá minn erfda-hluta. Fadirinn gjørdi svo og skipti út arfinum á milli brædranna. Skommu sidar fór sonurinn utan, til fjærlægra landa og sóadi þar øllu fé sínu í munadar-lífi. Þegar hann var þar félaus ordinn, gengu megn hardindi þar í landi, svo

hann tók ad líða skort. Hann neyddist því til að géfa sig í vinnuvist hjá bónda nockrum þar í plátsi, sem lét hann gjæta svína sinna í úthogum. Þar komst hann í mesta volædi, því enginn gaf honum lífsbjörg, svo hann jafnvel neyddist til að sefa húngur sitt á fódri svínanna. En — þá rann honum í hug með sjálfum sér: hversu marga daglauna-menn heldur nú ecki Fadir minn, sem hafa matarnægtir miklar á meðan eg velt hér útaf í sulti. Eg skal nú halda heim aptur til Föður míns og mæla svo vid hann: Fadir minn gódur! eg hefi syndgad bædi gégn Gudi og þér og er ecki framar verdur ad nefnast sonur þinn, en taktu mig ad þér, sem þinn daglauna-mann! Ódara héldt hann af stad heimleidis til fødur síns, en fljótt þeckti fadirinn hann álengdar, aumkadi hann innilega, flýtti sér á fund hans, lagdi hendur sínar upp um háls honum og kyssti hann. Þá mælti sonurinn: Fadir minn gódur! eg hefi syndgad gégn Gudi og þér og verdskulda ecki framar ad nefnast sonur þinn. En Fadirinn sagdi þjónum sínum. Færid mér einhvern besta fatnadinn, sem til er

í húsi mínu og klædid hann í, dragid hríng á hönd honum og bindid skó á fætur hans, sækid svo alikálfinn, slátrid honum og matreidid hann, svo vér fáum nú og samglaðst af því, ad þessi sonur minn var daudur, en er nú endur-lifnadur; hann var týndur, en er nú aptur fundinn. Veitsla vard því fullbúin og gladt med mönnum; en — rétt í því kom elldri bródirinn heim aptur af engjum og er hann nálgadist bæinn, heyrdi hann þar saung og dansleika. Hann kalladi því einn vinnumanninn fyrir og spurdi: hvad um væri ad vera? þessi sagdi honum: ad bródir hans væri kominn heill og hraustur heim aptur og hefdi fadirinn því gjort veitslu þessa. Vid þad firtist elldri bródurinn og vildi ekki gánga inní samqvæmid. Fadirinn gékk því sjálfur út til hans og bad hann inngánga, en hann ansadi: í mörg ár hefi eg nú þjónad þér og aldrei brotid gégn bodum þínum, en aldrei vard þér ad vegi ad géfa mér svo mikid, sem einn kidlíng, til ad gjöra mér til góda med og kunníngjum mínum. En nú þegar þessi sonur þinn er heimkominn, sem í óráðvandra manna flocki, hefir svallad

út gétzi þínu, lætur þú slátra oldum kálfi til veitslu fyrir hann. En fadirinn svaradi: Sonur minn! þú ert ætíd hjá mér og allt hvad mitt er, þad er þitt; en nú ættum vér ad vera kátir og gladværir fyrst bródir þinn er heimkominn, hann, sem var dáinn og er lifnadur, var týndur, en er nú aptur fundinn."

Þessi Dæmisaga er sonn ásmálan Guds mildríku nádar vid ángradann syndara; afmálan lastanna afleidínga og mótlætínganna tilgángs. Þessir tveir brædur mega og þýda gagnstæd efni, annadhvert Gydínga og Heidíngja, ellegar Pharísea og þá betri af lægra hópinum, sem betruđust vid Jesú kénníngar, svo sem: Zacheus, Maria Magdalena og fl. Hversu vidqvæmur var Fadirinn? en — hversu vesælmannleg þar á móti ofund þess sérgóda sonar!

## (i Audugi Bóndinn.

Audugum bónda hlotnadist ríkuglegur uppskéru fengur; hann hugsadi því med sér: hvad á eg ad gjora? eg hefi hvergi nærri nóg hús-rúm fyrir ávoxt af ökrum

mínum; eg sje. ad eg verd ad rýfa nidur kornhlødur mínar og byggja miklu stærri, til ad safna saman í þær þeim mikla árs-gróda og ed:um audi mínum. Skal eg. þá segja vid sjálfann mig: þú hefir safn-ad þér nægtum til margra ára; lifdu nú med ró, et eg dreck og vertú glad-vær. En — Gud sagdi vid hann: heimsk-íngi! í nótt muntu sálast hverjum mun. þá hlotnast þad allt, sem þú safnad hef-ir? þannig fer þeim, er safna sér fjár-sjódum, en eru ecki ríkir af því, sem Gudi þéckuast. Safnid ydur því ecki audlegd, hverri mølur og ryd sær grandad og þjófa hendur fá rænt, en safnid heldur fjársjódum til eilífs lífs; því hvar ydar fésjódur er, þar mun ydar hjarta vera.

## k) Fíkjutréd.

Madur nockurr átti fíkjutré, sem plant-ad var í víngardi hans; einhverju sinni kom hann ad leita ávaxtar á því, en fann engann. þá sagdi hann vid vín-gards-manninn: í þrjú ár hefi eg nú komid híngad og leitad ávaxtar á þessu tré, en engann fundid; høgg þú þad upp! því

á þad ad eyda hér rúmi frá ødru gagnlegra? Víngards-madurinn ansadi: Herra! lofadu því enn ad standa þetta ár út, en, á medan vil eg reyna til ad grafa í kríngum og leggja áburd vid þad, má vera þad þá ávoxt beri, ef ecki, gétur þú sídar látid hoggva þad upp.

Eins og þessi víngards-madur, hlífir Gud lengi vondum mønnum í heiminum, svo ad þeir fái tíma til ad betra sig. Í von um betrun, hlífa einnig þeir, er ráda ega yfir ødrum, lotum mønnum og hirdulausum, en verki hlífd eckert, er hegníngin vís.

## l) Otrúr Rádsmadur.

Rikur Herramadur héldt rádsmann, sem honum var sagt ad sóadi fé hans. Hann kalladi þann fyrir sig og sagdi: eg heyri lítid gott um þig og skaltu nú standa mér skil fyrir rádsmennsku þinni, því lengur fær þú ecki verid í vist hjá mér. Rádsmadurinn hugsadi med sjálfum sér: hvad á eg nú til ad gjora, þegar Herrann rekur mig úr vistinni? ónýtur er eg til strits og of stór uppá mig til ad snyk-

ja. Eg veit hvad eg skal til bragðs taka, svo ad eg fái inni hjá ødrum, þegar eg hér verd rækur úr vist. Hann kalladi því saman skuldunauta Herra síns og sagdi vid hinn fyrsta: hvørsu mikid ertu skuldugur Herra mínum? Sá ansadi: 100 Tunnur olíu. Þá sagdi rádsmadurinn: settu þig fljótt nidur, taktu vid skuldabréfi þínu, en skrifadu annad uppá 50. Allteins sagdi hañ vid þann næsta: hve mikid ertú skyldugur? 100 Tunnur hveitis — ansadi sá — þarna er bréfid þitt — sagdi Rádsmadurinn — skrifa þú 80.

Eptirþánki, hyggindi og forsjálni eru lofsverdir eginlegleikar, séu þeir samfara rádvendni, Gudsótta og elsku til ens góda; en séu þeir í ágirndar og annara lasta þjónkun, auka þeir einúngis afbrot vor og skada, en gagna alls ekkert.

## m) Audmadur og Fátæklingur.

Einusinni var stór-ríkur madur, sem klæddist purpura og dýrmætu líni og lifdi daglega í gledi og ysirlæti. Þar var líka sárfátækur madur, ad nafni Lazarus,

sem lagdur var ad dyrum hins ríka, hladinn sárum og kaunum; hann girntist einúngis ad sedjast af molum þeim, sem féllu af bordi þess ríka — jafnvel hundarnir komu ad sleikja kaun hans. — Sá fátæki deydi loksins, en Englar báru sálu hans í fadm Abrahams. Sá audugi derdi líka og vard greftradur. En þegar hann í hinu lífinu vard í qvölum staddur og leit upp augum sínum, sá hann Abraham álengdar og Lazarus hjá honum. Kalladi hann þá upp: Fadir minn Abraham! aumkastú yfir mig og sendtú Lazarus híngad, svo hann dýfi fíngurgómi sínum í vatn og kæli túngu mína, því eg þjáist ógnarlega í loga þessum. Abraham ansadi: minstú Sonur! ad þú úttókst hid góda á medan þú lifdir, en Lazarus leid hid vonda, því huggast hann nú, en þú qvelst. Auk þessa er vor og ydar á milli botnlaust djúp aimarkad, svo ad þeir, sem hédan vilja fara til ydar, megna þad ecki og þér ecki heldur ad komast til vor. Fadir minn! — sagdi audmadurinn — sendtú hann þá til fodur míns heimkynna, hvar eg á 5 brædur, ad hann segi þeim frá

þessu, svo þeir komi ecki í þenna qvala-stad. Abraham ansadi: þeir hafa hjá sér Mésis og Spámannanna kénníngar, hlýdi þeir þeim. Æ nei! Fadir Abraham! — sagdi hann — en kjæmi einhverr framlidinna til þeirra aptur, mundu þeir vissulega sjá ad sér; en Abraham ansadi honum: hlýdi þeir ecki Mési og Spámönnunum, þá mundu þeir, þó einhverr framlidinn uppristi, heldur ecki honum trúa.

Auðæfi megna ecki ad gjöra oss farsæla hér á jördu, og því sídur í ödru lífi; þau ginna þvert á móti aflopt til munadarlífis og sjálfs-elsku og til allra þar af leidandi lasta. Þar á minnir oss þessi dæmisaga undir eins og hún skírlega afmálar oss það ófarsæla ástand ógudlegra í komanda lífi.

## 7. Nockur Kraptaverk Jesú.

Jesús hafdi lýst sig ad vera Guds Son, hvad hann og sannadi, ecki ad eins med guddómlegri kénníngu, heldur og med marg-háttudum krapta-verkum sínum, sem án adstodar þess Almáttuga

var ómøgulegt ad framqvæma. Hér um bil í 3 ár ferdadist Jesús um kríng, í landinu og læknadi opt, einúngis med einu ordi-étal sjúka, sem med trúnadar-trausti leitudu hans. Hann gat því med øllum rétti ansad Lærisveinum Jóhannes-r Skírara, þegar hann í fángelsinu lét þá spyrja hann um, hvert hañ væri sá sanni Messías: „Farid“ — sagdi hann — „og segid Jóhannesi hvad „þér hafid sjed og heyrt: blindir sá sýn, „halltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir „heyra, daudir upprísa og Evangelíum „(þad er: gledi-fregnin um Frelsarans „komu) er fátækum bodud.“

Einhvern tíma ferdadist Jesús um bæ nockurn, sem hét Nain, en er hann kom ad bæar portinu, var úngmennis lík hafid út til greftrunar; var þad einka sonur eckju nockurrar. Módirin sjálf, bjúg af sorg, fylgdi líkinu til grafar og mannfjøldi mikill med henni. Þegar Jesús sá hana, aumkadist hann innilega og sagdi: grát þú ecki! sídan géck hann ad líkbørunum, bad líkmenn staldra lítid eitt vid og mælti: únglíngur! stattú upp! svo skipa eg þér! Sá daudi reis upp og

taladi og Jesús gaf hann aptur módur-inni. Allir undrudust þetta, lofudu Gud og sögdu: mikill Spámadur er á medal vor uppriſinn og Gud hefir miſkun aud-sýnt fólki sínu.

Í ödru sinni var Jesú færdur lima-fallssjúkur madur, sem lá í reckju sinni. Þegar Jesús vissi trú þeirra, sagdi hann vid þann limafallssjúka: „Sonur! vertú „hughraustur! syndir þínar eru þér „fyrirgéfnar.“ En, nockrir Skriftlærd-ir, sem þar vóru vidstaddir, sögdu med sjálfum sér: þessi gudlastar. Þegar Je-sús sá þeirra hugrenníngar, sagdi hann: „því hugsid þér svo vondt í hjörtum yd-„ar? hvert er audveldara ad segja: þín-„ar syndir eru þér fyrirgéfnar, ellegar: „stattú upp og gáckú? en — svo ad þér „sjed fáid, ad eg hefi vald hér á jördu „til ad fyrirgéfa syndir, þá“ — og snéri sér um leid til ens sjúka. — „stattú upp, taktú sæng þína og gack.“ Sá sjúki stód upp og géck heim í hús sitt. Þegar fólk-id sá þetta, undradist þad mjög og lofadi Gud fyrir þvílíkann krapt, er hann hefdi manni ljentann.

Þeg-

Þegar Jesús einhverju sinni kom í Stadinn Kapernaum í Galíleu, sendi rómverskur Hofudsmadur nockurr, sem heyrt hafdi ordróm af Jesú, Gydínga nockra til hans, sem áttu ad bidja hann ad lækna einn af þjónum Hofudsmannsins, hverr af hættum súkdómi var nær dauda enn lífi, en var hans uppáhald. Gydíngar þeísir komu til Jesú og bádu hann innilega um áíjá Hofudsmanninum til handa. Vel er hann þess verdur — sogdu þeir — því hann elskar þjód vora og hefir byggt Samkunduhús vort. Jesús vard þeim því samferda, en er þeir nálgudust bústad hans, sendi hann vildarmenn sína til Jesú og lét segja honum: ómaka þig ecki, Herra! því ég er ecki verdugur þess, ad þú gángir inn í hreysi mitt, en mæltu ad eins eitt ord og mun þjón minn heill verda. Þegar Jesús heyrdi þetta, undradist hann og sagdi vid fylgjara sína: svo mikla trú hefi eg enn hvergi fundid í Israel. Því segi eg ydur: ad margir munu koma úr austri og vestri og hultdeildar njóta med Abrahami, Isaki og Jakobi í Guds ríki.

ríki. En Hofudsmanns þjóninn vard heill á sömu stundu.

Ecki var þad samt í Galíleu einni, sem Jesús þannig gjördi kraptaverk, heldur allteins í sjálfri Jerúsalem, hvar Jesús opt á Stórhátídum mætti, þegar margar þúsundir manna þustu til Musterisins. Þannig læknadi Jesús í þessum Hofudstad, umkríngdur af uppvægum fjandmönnum, limafalls-sjúkann mann, sem í 38 ár féck hvørki hrært legg né lid; en í ödru sinni gaf hann blindfæddum manni sýn, hvern Stjórnarrádid rak út af Samkundunni, fyri þá sök, ad hann vidurkénndi Jesús ad vera Messías, eptir þad þeir forgéfins reyndt höfdu til ad reyngja þessa dásamlegu lækníngu. Jafnvel fyrir utan takmörk Gydingalands, hjálpadi Jesús ógjæfusamri módir nockurri. Því þá hann einhvern tíma var á ferd med Lærisveinum sínum á landamærum Phöniciu, kom kanversk kona nockur til hans og mælti: Herra! Sonur Davíds! miskuna þig yfir mig, dóttir mín er qvalin af óttalegum sjúkdómi, en Jesús ansadi henni engu ordi. Lærisveinarnir logdu loksins

gott til med henni og ſögdu: loſadu þig vid hana, því hún kallar á eptir oſs. Ecki er eg ſendur — anſadi Jeſús þeim — nema til týndra ſauda af Iſraels húſi (Þad er: til fáfródra og betrunar-þurfandi Gydínga). En, á medan var hún þegar komin til Jeſú, féll fram fyrir hann og ſagdi: Herra! hjálpadú mér! En — nú vildi Jeſús géfa ſínum fordómsfullu Læriſveinum augljós rök fyrir, hverſu áſtædulaúſt Gydínganna hatur og vanvyrda væri gégn heidíngjum, med því ad ſvara henni med einhverju uppgérdu hardlyndi. Þad er ecki rétt — mælti hann — ad taka braudid frá börnunum, en kaſta því fyrir hundana! Kanverſka konan anſadi þeſſu med audmýkt: ſatt er þad, Herra! — ſagdi hún — því eru hvolpunum opt géfnir molar ad eta, ſem falla af bordum drottna þeirra. Prýdilega hafdi þeſsi heidna kona afſtadid reynſluna, því anſadi Jeſús: Kona! mikil er trú þín, verdi þér eins og þú vilt! en á ſömu ſtundu vard dóttirin heilbrigd.

8. Je-

## 8. Jesú Postular.

Margir vóru þeir, einkum upphaflega, sem fylgdu Jesú; en af þessum valdi hann 12, sem jafnan fylgdu honum, hverja hann og enn ítarlegar uppfræddi. Hér um bil þriggja ára tíma vóru þeir hans stödugir tilheyrendur og vottar um dygdir hans og líferni. Tveir af þeim, nefnil: Mattheus og Jóhannes hafa því ritad lífs-sögu hans í þeirra svo nefndu Gudspjöllum. Þessir 12, er hétu: Pétur og Andres bródir hans, Jakob Zebedeusarson og bródir hans Jóhannes, Philippus, Barthólómeus, Thómás, Mattheus Tollheimtumadur, Jakob Alpheusarson, Júdas auknefndur Thaddeus, Símon og Júdas Ischariót, kallast Postular (Sendibodar), af því Jesús, á medan hann enn þá dvaldi hér á jördu, sendi þá út til ad boda lærdóm sinn og stadfesta hann med kraptaverkum; því eptir hans himnaför áttu þeir í hans stad ad stipta Guds ríki edur þá kristnu kirkju á jördunni. Þeim til æfingar sendi Jesús þá fyrst tvo og tvo saman út um allt Gydíngaland og

gaf þeim svo felldar lífsreglur: Farið til villuráfandi sauða af Jsraels húsi og segið: himnaríki (Guðs ríki) er nærri; læknið sjúka, hreinsið líkþráa og endurlífgið dauða. Fyrir alls ekkert hafið þér ödlast vald til þess; framqræmið það því ókeypis. Hverki skuluð þér hafa gull né silfur né kopar í beltum ydar, ekki heldur tvo kyrtla, ekki skó eda staf. Sjáið! eg sendi ydur út, sem sauði á medal úlfa; þeir munu húðstrýkja ydur í þeirra Samkundu-húsum og draga ydur fyrir Konúnga og Fursta, en — verið samt ekki hugsjúkir um hvad eda hvernig þér skuluð tala, því í sama bragði mun því verda ydur í brjóst blásið, því ekki erud þér þeir, sem talið, heldur Fodur míns andi, sem í ydur mælir. Ottist því ekki þá, sem líkhamann megna að deyda, en ekki sálina, en ótrist einúnais (að styggja) hann, sem í hinu lífinu gétur sálunni tortýnt. Seljast ekki tveir titlíngar fyrir einn pening, þó fellur enginn af þeim til jardar, án vilja ydar Fodurs; óttist þess vegna ekki, því oll ydar hefuðhár eru líka talin. Postularnir gengu af stad, og Jesú bodi, kunngjordu lærdóminn og

læknudu, med almáttugs Guds adstod, þá sjúku, sem þeirra leitudu. Gladværir snéru þeir því aptur til Jesú, en þar eptir sendi hann út 70 adra Lærisveina, sem fylgdu hónum, hverjum einnig heppilega tókst ad rækja erindi sín.

## 9. Zacheus.

Jesús audsýndi sem Frædari, ecki einúngis Lærisveinunum sérlega góðvild, heldur og hverjum manni, sem gaf von um betrun. Einhverju sinni var Jesús á ferd í Stadnum Jerichó, hvar allir þustu til hans, til ad sjá þenna nafntogada Sendiboda Guds. Á medal fjöldans var líka Tollheimtumadur nockurr, er Zacheus hét, en þar hann var smámenni ad vexti, klyfradi hann upp í tré, svo hann fengi gloggvar séd Jesúm. Jesús vard hans var, nálgadist og mælti blídlega vid hann: flýttú þér, Zacheus! fardu ofan! því í dag vil eg heimsækja þig! Med mestu gladværd yfir svo óvæntri virdíngu, skundadi Zacheus heim ad taka á móti gésti sínum; en nærstaddir dramblátir Gydíngar tóku ad skimpa

ad því, ad Mèssías vildi heimsækja mann, sem væri í þeirra heidnu Róm verja þjónustu og hvers næríngar útveg ur hefdi ílt rykti á sèr um þær mundir. Þegar Zachèus heyrdi mögl þeirra, staldr adi hann vid og sagdi: Herra! helftin af eigum mínum gèf eg fátækum og haf eg gjort á nockurs hluta med prettum géld eg þad fjórfaldt aptur. Þannig verkadi hèr Jesú mildi sannann aptur hvarfs ávöxt, en vanvyrdti sèrvitra Gyd ínga heimskulegt dramb.

## 10. Lazarus.

Nálægt Jerúsalem bjó í litlum bæ, sem hèt Bethanía ætt nockur, sem heldt mik id af Jesú, hverri hann unnti innilega. Fólk þetta var madur nockurr ad nafni Lazarus og tvær systur hans, er hètu Martha og María. Þegar Jesús einhverju sinni heimsókti þad, var Martha mjög svo áhyggjufull vid matreidslu, því hún vildi taka Jesú vel, sem faung þeirra leyfdu, en sú gudhrædda María sat vid fætur Jesú til ad hlusta á rædur hans. Loksins leiddi hègóma girndin

Mörthu, til ad segja: Herra! bid þú systur mína ad hjálpa mér nockud til. En Jesús sagdi: ad María hefdi valid þad, sem betra var, þvíad námfýsi á gott, væri sér þeckari enn mikill réttafjöldi.

Litlu ádur enn Jesús í sídasta sinni fór til Jerúsalems, lagdist Lazarus veikur í hættulegri sótt. Þær-systur sendu Jesú strax bod um þad; en af ásettu rádi tafdi Frelsarinn ad koma, svo Lazarus var ecki einúngis dáinn, heldur búid ad grafa hann þegar hann loksins kom. Martha féck fyrri ad vita komu Jesú, skundadi því honum á móti og sagdi: Herra! hefdir þú komid fyrri, væri nú bródir minn ecki dáinn. Jesús ansadi: bródir þinn skal aptur upprísa. Eg er upprisan og lífid, hverr, sem trúir á mig, skal eilíflega lifa, þó hann deyi. Þegar nú María einnig kom og ásamt henni fjöldi Gydínga frá Jerúsalem, sem komnir vóru þeim til huggunar, géck Jesús med allri þeirra fylgd til grafarinnar, lét velta burt steininum, sem yfir grafar opi d var lagdur og kalladi: Lazarus! kom

þú upp úr grøfinni! Sá daudi kom þá fram, sveipadur líkblæum. Þeir, sem áhorfdu, trúdu á Jesúm, en hatur fiandmanna hans æstist enn meir vid þad, svo ad þeir ecki einúngis vildu ráda Jesúm, heldur og Lazarus af døgum.

## 11. Jesú innreid í Jerúsalem.

Um lítinn tíma fordadi Jesús sér fiandmanna ofsóknum, eptir þad hann hafdi vakid Lazarus upp frá daudum. Af þessu urdu Pharíseärnir og Skriftlærdir því hofmódugri, sem þeir meintu ad Jesús væri hræddari vid þá. Þeir hugdu því ad sigurinn væri í høndum þeirra; því auglýsti háa Rádid: ad hverr, sem vissi Jesú heimkynni, skyldi géra þad uppskátt. Annars var aldrei ásetníngur Jesú ad hlaupa í felur undan ofsóknum þeirra. Þegar á fyrsta árinu, er hann kom fram, sem Frædari, hafdi hann vottad: ad hann væri til þess á jørdu kominn, ad fórnfæra lífi sínu til frelsis øllum kynqvíslum manna. Opt hafdi hann fyrisagt: ad hann í Jerúsalem mundi framseldur verda fiandmønn-

um sínum og krossfestur, en á þridja degi frá daudum upprísa. Svo hann nú ad fullu og ollu sýndi ofundar-monnum sínum, hversu lítid hann óttadist þá, héldt hann, fáum dogum fyrir Páska hátídina, hátídlega innfor sína til Jerusalems, rídandi á osnu, í fylgd mikils manngrúa, sem breiddi klædi sín og strádi pálmavidar greinum á veginn, sem hann reid um, hrópandi med fagnadar hljómi: lofadur veri Gud! blessadur veri Davíds Sonur, sem kémur til vor í Drottins nafni! Pharíséar og Skriftlærdir skárust ad sonnu í hjortum sínum yfir þessari vyrdíngu, en árædu þó ecki ad setja sig upp gégn fjoldanum. Þeir máttu jafnvel seckja gremju sína yfir því, ad Jesús rak út úr musteris forgardinum alla þá, sem verdsludu med fórna-fénad og þesskonar mynt, í hverri árleg gjeld til musterisins greidast áttu.

## 12. Jesú Fjandmenn.

Fokreidir yfir hugprýdi þeirri og einurd, med hverri Jesús strossadi lesti Pharíse-

ara og Skriftlærdra, án þess ad géfa gaum ad misþócknun þeirra, tóku þessir saman rád sín um, hverja átyllu þeir gætu fengid, til ad klaga hann fyrir rómverska Landstjórnaranum Pílatusi, sem einmidt þá undir Páska-hátídina var staddur í Jerúsalem. Fyrst gérdu þeir út sendimenn til Jesú, daginn eptir þad hann hafdi útrekid verdslarana úr musterinu og létu spyrja hann: hverr honum hefdi þar til vald géfid? Jesús ansadi: þessari spurníngu skal eg svara, þegar þér hafid sagt mér: hvert Jóhannes var útsendur frá Gudi, ellegar ecki? Sendimenn sneiptust og þogdu; því ad neita, ad Jóhannes hefdi verid Guds Sendibodi, vogudu þeir ecki, vegna fólksins, en ef þeir játudu, hlutu þeir jafnframt ad vidurkénna sannleika þess, er Jóhannes bodadi um Jesúm, sem heimsins Endurlausnara.

Daginn eptir komu þeir enn til Jesú og sögdu: Herra! vér vitum ad þú ert sannordur og birtir vilja Guds án manngreinar álits; segdú oss þess vegna hvad þér þyrdist: er rétt ad géfa Keisaranum skatt, ellegar ecki? Med þessari

brögdóttu spurníngu hugdust þeir ad veida Jesúm. Ef hann ansadi: ad ecki ætti skattur ad gjaldast þeim rómversku Keisara, þá fengist orsök til ad klaga hann fyrir Landstjórnaranum, sem uppreistar höfund. Segdi hann þar á mót skattinn gjaldast ega, yrdi alþýdan honum fráhverf, sem áleit Herradæmi Rómverja yfir Guds fólki ad vera eins ránglátt og þad þókti óbyrdandi. Jesús sá fullglöggt fyrir hrecki þeirra og sagdi: þér, hræsnarar! því leitist þér vid ad leida mig í vandrædi? sýnid mér myntina í hverri skatturinn gjaldast á. Þeir réttu ad honum eina þvílíka. Hvers mind og yfirskrift er þessi? — spurdi Jesús — Þeir ansudu: Keisarans. Géfid þá Keisaranum, hvad Keisarans er og Gudi þad, sem er hans, — svaradi Frelsarinn — En er þeir heyrdu svarid, furdudu þeir sig yfir speki hans, yfirgáfu hann og genau á burt. Med mikilli einurd ávítadi Jesús þá ógudlegu og hræsnisfullu Pharísea og Skriftlærda í rædu, sem hann hélt fyri samankomnum fjölda manna, sagdi þeim fyrir borgarinnar eydileggíngu, sem eptir 30 og nockur ár uppfylltist, samt ad í því

dýrdlega og nærstum ódvinnanda mikla musteri, mundi ecki steinn yfir steini standa. Var sú ræda hin sídarsta, sem Jesús opinberlega héldt. Litla stund dvaldi hañ fyrir utan musterid og leit eptir, hversu ríkismenn færdu þángad miklar stór-gjafir til musterisins þarfa, en sagdi þó, ad fátæk eckja nockur, sem gaf þær seinustu leifar sinna litlu efna, hefdi þó géfid miklu meira. Hvarf hann sídan á burt úr Jerúsalem, en ad þremur dögum lidnum kom hann fyrst þángad aptur, til ad pínast og deya.

## 13. Qvøldmáltídar innsetningin.

Fimtudaginn fyrir Páska, sendi Jesús Lærisveina sína inn til Jerúsalems, til ad matreida Lamb þad, hvers Móses bodid hafdi, ad allir Gydíngar, á adfángadags qveld Páska, neyta skyldu, ásamt smeckrommum jurtum og ósýrdu braudi, til minníngar um þrældóm þeirra í Egyptalandi og lausnina þadan. Um qvøldid sama daginn, gèck Jesús siálfur

inn í Jerúsalem, neytti Páskalambsins með Lærisveinunum og ecki einúngis fyrirsagdi þeim þá, ad hann á þeirri sömu nóttu mundi af einum þeirra (Júdaſi Jschariot) forrádinn verda í fjandmañа hendur, heldur og, ad þeir allir mundu þá yfirgéfa hann. Ad vísu qvadst Pétur — og með honum allir hinir — fyrr skyldi lífid láta; en Jesús ansadi honum: eg segi þér satt og víst: ádur enn haninn gálar í þridja sinni, verdur þú þrisvar búinn ad afneita mér. Adur enn Jesús settist til bords, þvodi hann fætur Lærisveinanna, svo hann med sínu tignarlegg dæmi innrætti þeim audmýkt og sjálfsafnegun til annara velferdar; en þegar Páskalambs máltídinni var lokid — mun þá Júdas án efa strax hafa gengid á burt — innsetti Jesús þá heilögu Qvöldmáltíd. Jesús tók nefnil: ósýrt braud, braut þad og sagdi: takid vid þessu og etid þar af! þad er líkami minn, sem ydar vegna verdur útgéfinn. Gjörid þetta í mína minníngu. Eins tók hann kaleikinn (bikarinn med víni í), þackadi Gudi og sagdi: dreckid allir hér af, þetta er mitt blód,

ens Nýa-Testamentis, sem úthellist margra vegna, til syndanna fyrigéfníngar (það er: mitt blóð, sem verdur úthellt til að stipta með nýrra trúarbragða sofnuði og s. fr.) Gjörið það í mína minníngu. Blídlega taladi Lausnarinn sídan við sína niðurslégnu Lærisveina, huggaði og hughreysti þá og bað sinn himneska Fodur fyrir þá.

## 14. Jesús í Gethsemane.

Um miðnættis skeið fór Jesús út úr Jerúsalem ásamt 11 Lærisveinum sínum, og géck til Aldingarðs nockurs, fyrir utann Staðinn, sem hét Gethsemane. Hann bað þá, á þessum óttaléga tíma, að vaka og biðja með sér, því dauðans ángist átti Frelsarinn í vændum. Pétur, Jakob og Jóhannes lét hann fara með sér lengra inn í garðinn til bænagjörða; en bæði af vokunni og sorg vóru Lærisveinarnir svo yfirkomnir og af þreytu, að þeir féllu allir í fastann svefn. Jesús var því aleinn staddur í náttmyrkrinu, yfirgéfinn af ollum og átti eptir fáein litin augnablik að verða férn til óttleguſtu pínsla og

qvalafyllsta dauddaga, bjúgur af tilhuasun allra synda og eymda, er láu á mannkyninu, hañ snéri sér því med bæn um hugstyrk og krapt til síns himneska Födurs. „Fadir miñ!" — sagdi hañ — „sé þad moaulegt, „víki nú þessi kaleikur (pínu-bikar) frá „mér; þó ecki minn, heldur verdi þinn „vilji!" Þrisvar ítrekadi Jesús þessa bæn sína og ángistarinnar sveiti streymdi nidur af andliti hans sem dauda-dropar. Hann vard svo styrktur af Gudi vid bæn sína, ad hann stód upp í þridja sinni, vakti Lærisveina sína og géck öruggur fram á móti svikaranum.

## 15. Jesús fyrir því háa Rádi.

Fyrir 30 silfurpeninga *) hafdi sá ágjarni Júdas selt háa Rádinu Herra sinn og Meistara; hann géck fyrir vopnudum skara af þjónum þess til ad handtaka Frelsarann. Jesús kom rósamur á móti honum. Ad hverjum leitid þér? — spyrdi hann — Ad Jesú af Nazareth, svörudu þeir. Jesús mælti: eg er

*) Hér um bil 15 rdli í vorri mynt.

hann! Ottaslegnir viku þeir til baka; en Júdas gèck fram, fadmadi hann ad sèr og kyssti hann, sem var áqvardad merki, ad sá væri madurinn, hvern grípa skyldi. Jesús, aumkadist yfir þenna vesæla og mælti einúngis: „svíkur þú vin „þinn med kossi?" Vaktin, örugg vid þetta, greip þá Jesúm og færdi hann fyrst til Annasar og sídan til Kaiphasar, sem þá var Höfud-prestur, hjá hverjum háa Rádid var samankomid. Ad engu haldi kom, þó vitni væru leidd honum á móti, því ecki urdu þau samhljóda í framburdinum. En loksins vard Jesús fordæmdur fyrir þad hann sagdi sig ad vera Son Guds. Þeir spurdu hann um kènníngu hans og slóu hann, þegar hann ansadi: „spyrjid fólkid um „hana, því opinberlega hefi eg kènnt í „Samkunduhúsum og í Musterinu." En, þolgódur umbar Jesús þann órétt og sagdi einúngis: „hafi eg talad óſatt, „þá sanna þú þad á mig, en hafi eg „satt sagt, því slær þú mig þá?"

Þegar Jesús var til fánga tekinn, flýdu Lærisveinarnir — burt; einúngis Pétur og Jóhannes fylgdu á eptir hon-

um ínni forgardinn á Annasar húsi. Margir fengu þar misþánka um, ad Pétur mundi vera einn af Jesú áhángendum og spurdu hann þar um. Hann neitadi því óttasleginn nockrum sinnum og ad sídustu sór hann fyrir, ad hann þeckti Jesúm; en — þá gól haninn og í sama bili leiddi vaktin Jesúm þar fram-hjá; hann leit til Péturs; Postulinn sá þad og kannadist vid brot sitt gécк því út, grét beisklega og vogadi ecki framar ad nálgast sinn naudstadda Herra.

## 16. Jesús fyrir Pílatusi.

Undir eins og ljómadi degur á Föstudags morguninn, géngu Prestarnir med Jesúm til Pílatusar og áklögudu Frelsarann, sem uppreistar-höfund, er bannadi ad gjalda Kejsaranum skatt. Pílatus komst strax vid yfirheyrsluna ad raun um, ad Jesús væri saklaus og reyndi þessvegna til ad frelsa hann, jafnvel þó hann, af ótta fyrir hatri Rádsins, ecki vogadi umsvifalaust ad frikénna hann, hvad honum þó hæfdi. Fyrst sendi hañ Jesúm, sem innfæddann Galíleu-mann

til Heródesar Konúngs, en hann gjördi einúngis spott ad Frelsaranum, þegar hann ecki vildi vyrda spurníngar Konúngs andsvara. Pílatus lét sídan húdstrýkja Jesúm og ad því búnu, þegar Strídsmennirnir, med frekjufullri grimd, hofdu þreyngt kransi af þyrnum um hosud honum, leiddi Pilatus Jesúm fram fyrir fólkid, til ad hræra þad til medaumkunar; en svo hofdu Pharísearnir uppæst þad, ad mannfjoldinn einúngis hrópadi: krossfestu hann! en þegar nú sjandmenn Jesú ásamt kolludu til Pílatusar: látir þú þenna lausann, breytir þú óvinsamlega vid Kejsarann! fordæmdi Pilatus um sídir, en á móti betri sannfæríngu, of ótta fyrir monnum, þann saklausa Jesúm til lífláts, þegar hann fyrst hafdi, ollum ásjáandi, þvegid hendur sínar og med markleysu yfirlýst: **ad hann saklaus væri af blódi ens réttláta,** hverju blindur manngeûi ansadi med fyrirbodandi frekju: **komi blód hans yfir oss og born vor!**

## 17. Jesús á Krossinum.

Jesús vard sídan ásamt tveimur ræn-
íngjum leiddur út til krossfestíngar. Hon-
um var bodinn svæfandi dryckur, en
hann vildi þann ecki þyggja. Þegar
búid var ad negla hann á krossinn,
vóru hans fyrstu ord þessi: Fadir! fyr-
irgéf þú þeim, því þeir vita ecki hvad
þeir gjöra. En þegar annar ræníng-
janna, sem med Jesús vóru krossfestir,
gjørdi gis ad honum og hinn ræníng-
inn átaldi hann fyrir þad þanninn:
„vid lídum hvad verk ockar verdskulda;"
„en þessi er saklaus," huggadi Jesús
þenna ydrandi syndara og sagdi: í dag
skaltú vera med mér í Paradís! Þessu
nærst leit Jesús módur sína, ásamt Jó-
hannesi, bædi bjúg af sorg standa undir
krossinum. Módir! — sagdi hann —
þessi er sonur þinn! hann leit sídan til
Jóhannesar og sagdi: sjádú þarna hana
módur þína! En — nú laust óttalegu
myrkri yfir allt landid, einlægt frá hádegi
til nóns (kl. 12 til 3) og þá fyrst finn-
um vér rok til ad Jesús hafi tekid ad
hugsa um sjálfann sig: Gud minn!

— ſagdi hann eptir Davíd — Því hefir þú yfirgéfid mig? (þad er upphafid á þeim huagunar-ríka 22 Pſálmi) Lofsins ſagdi Lausnarinn: þad er fullkomnad! hneiadi höfud ſitt og deydi med þeſſum ordum: Fadir! í þínar hendur fel eg ſálu mína! Þegar qvölda tók, komu ſtrídsmenn ad og brutu bein beggja ræníngjanna, af því líkin áttu ad takaſt ofan af kroſſunum fyrr enn náttadi; en er þeir litu Jeſúm þegar dáinn, ſtúngu þeir ſpjóti í vinſtri ſídu hans, til ad fullviſſa ſig um, ad hann dáinn væri. Nikódemus og annar mikilsháttar Gydíngur, ad nafni Jóſeph frá Arimathíu, fengu leyfi til ad grafa Jeſúm, hvern þeir huldu dýrmætum jurtum og ſveipudu inní fínt lérept, lögdu hann ſídan í útklappada bérg-holu; en ad Pharíſeanna beidni, var vakt ſett fyrir gröfina, ſvo ad enginn gæti ſtolid líkinu burt þadan.

## 18. Jeſú Uppriſa og Himnaför.

Á Föſtudags qvöld var Jeſús lagdur í gröfina, en á Sunnudags morguninn

fóru nockur góð-qvendi þángað, með um-
sól til að smyrja lík hans, en fundu
grofinq tóma; því í jarðskjálfta, sem inn-
féll snemma um morguninn, hafði Eng-
ill Drottins velt steininum frá grofinni,
vaktin var flúin burt af hræðslu, en
Frelsarinn, með Foður síns krapti, risinn
upp frá dauðum. Bædi í Jerúsalem
og líka í Galíleu talaði Jesús síðan við
Lærisveina sína og sáu hann fleiri enn 100
í einu. Að liðnum 40 dogum frá upp-
risu Jesú, safnaðist hann loksins ásamt
Lærisveinunum í síðasta sinni, á fjalli
nockru fyrir utan Jerúsalem, hvar hann
gaf þeim svolátandi skipun: Farið og
kénnið öllum þjóðum og skírið þær
í Fódursins, Sonarins og heilags
Anda nafni (það er: skuldbindið þá,
er skírdir verða, til að trúa á Guð Fod-
ur, Son og heilagann Anda); því sjá-
ið! eg er með yður allt til veraldar
enda. Með þessum orðum veik Jesús
frá Postulum sínum, en ský tók hann á
burt frá augum þeirra, því hann yfir-
gaf þessa jörð og uppsteig aptur til þeirr-
ar sameiníngar, með sínum himneska
Fod-

Fodur, sem hann hafdi ádur enn grund-
vollur veraldarinnar var lagdur.

## 19. Jesú Postular.

Þegar Jesús hafdi yfirgéfid þessa jord,
snéru Postularnir aptur til Jerúsalems
og bidu þar med rósemd þeirrar ædri
adstodar, sem Jesús hafdi heitid þeim,
svo ad þeir hæfir verda mættu til fram-
qvæmdar þeirra miklu kollun. Med
hlutkasti voldu þeir einn af Jesú Læri-
sveinum, ad nafni Matthías, til ad verda
Postuli í stad Júdasar Ischaríots;
því þegar þessi sá Jesúm framseldann
mótstodulaust í Landshofdíngjans hend-
ur, vaknadi sú svæsda samvitska þessa
ógjæfumanns. Hann skundadi því til
Prestanna, færdi þeim þá 30 silfur-pen-
ínga og sagdi: syndgad hefi eg, því eg
sveik hann saklausa; en þá þessi hrak-
menni ansudu honum med óttalegu kald-
sinni: Hvad kémur oss þad vid? sjádu
fyrir því! gékk þessi glotunarsonur á
burt, snaradi peníngunum í Musteris
sjódinn og endadi, álíkt svikaranum Achi-
tóphel, sjálfur líf sitt med því, ad heng-

ja sig í tré nockru; en þad vyrdtist jafn-
vel ad hrekja hann frá sér, því snaran
slitnadi, en hann féll ofaní urd, sem und-
ir var og murdist í sundur á grjótinu.

Á Hvítasunnudag vóru Postul-
arnir allir samankomnir. Heyrdist þá
hastarlegur þytur í loptinu, eins og storm-
ur mikill hvini, sem fyllti allt húsid, er
þeir vóru í; þeir sáu túngur, eins og
logandi eld, stadnæmast yfir sérhverjum
þeirra. Þeir urdu allir uppfylltir af hei-
logum Anda og tóku ad tala ýmisleg-
um túngum, rétt eptir því, sem Andinn
baud þeim. Mannfjøldi mikill þusti
þángad saman, en Pétur Postuli stód
þá upp og héldt snjalla rædu fulla af
eldi og mergi um þann krossfesta og upp
aptur risna Jesúm veraldarinnar Drottn-
ara. Sú ræda féck svo mjog á fólkid,
ad hér um 3000 manna létu skíra sig.
Þannig vard nú lagdur fyrsti grundvoll-
urinn til kristilegs safnadar, sem sídan
fór æ dagvaxandi og hvers limir álitu
hverr annann, sem limi af einni og somu
ætt; því ríkir midludu af nægtum þeirra
fátækum brædrum sínum. Því framar,
sem hin kristna kirkja tók voxtum og vid-

gáugi, bædi med innbyrdis kjærleika og líka med kénníngum Postulanna, sem styrktust af kraptaverkum, er vottudu, ad Gud væri í verki med þeim, þess heldur mátti hatur ens háa Ráds æsast. Þad lét því taka bædi Pétur og Jóhannes til fánga, og hefdi vissulega látid drepa þá, ef ecki hinn nafntogadi lærdi Pharíseari Gamalíel, hefdi lokid upp augum þeirra og sagt: ad ef kénníngin væri frá mönnum komin, mundi hún ad engu verda, en væri hún frá Gudi, kjæmi ad engu haldi ad standa mót henni. Rádid lét þess vegna einúngis húdstrýkja Postulana og hótadi þeim hördu ef þeir toludu framar um Jesúm. En Pétur ansadi til: framar ber ad hlýda Gudi enn mönnum. Med þad gengu þeir á burt, gladværir af, ad hafa lidid þetta fyrir Kriststrúarbrögd. Kénníngin dreifdist því meir og meir út, enn þótt Postulinn Jakob, bródir Jóhannesar, yrdi afhöfdadur eptir skipun Agrippas's, sem var Sonarsonur Heródesar Mikla, er um litla hríd stjórnadi ríki Afa síns, hvert hinn rómverski Keisari gaf honum. Kénníngin flutust jafnvel til heidinna þjóda,

eptir þad Pétur odladist vitrun nockra, þá er hann snéri til sannrar trúar og skírdi þann fyrsta heidinn mann, sem var rómverskur Höfuds-madur, Kórnelíus ad nafni.

## 20. Stephán.

Svo ad þess realulegar úthlutad yrdi gjöfum, sem fátækum lagdar véru í þeirri fyrstu kristni, voldu Postularnir 7 fátækra Forstjóra, á medal hverra einkum einn, Stephán ad nafni, lagdi allann hug á ad útbreida kristin trúarbrogd. Gydíngar urdu af þessu uppvægir, drógu Stephán fyrir Rádid og klogudu hann, sem gudlastara, eptir ad þeir fyrst med fásengilegri slægvitsku hofdu forgéfins tilreynt ad hrekja ástædur hans. Fyrir Rádinu héidt sá gódi Stephán lánga og snjalla rædu, en þegar hann, frá sér numinn af helgum hræríngum, mælti þessum ordum: eg sje himnana opna og Mannsins Son (Jesús) standa Gudi til hægri handar, urdu þeir, sem asfinna og hamsláusir, hrifu hann med sér út fyrir Stadinn og grýttu hann í hel. Þannig féll

Stephán, sá fyrsti kristni, sem med blódi sínu innsigladi trú sína, sem píslarvottur og deydi med þessum ordum: Herra Jesú! taktú vid sálu minni! Þegar hann fyrst hafdi bedid Gud um: ad fyrigéfa bödlum sínum þá synd, er þeir drýgdu. Í morguin af þeim kristnu bjó þetta Stephánts hugar-far sídarmeir á ofsókna tímunum; því hverr, sem elskar sannleikann og sannleiksins Hofund, Jesúm, má vera reidubúinn, eins og Stephán, þegar svo skal vera, ad offra eignum, metordum og sjálfu lífinu fyrir hann og hans lærdóm.

## 21. Paull.

Á medal þeirra, sem vóru gladværir vottar til, ad Stephán vard grýttur, var úngmenni nockurt, ad nafni Saul, af Pharíseanna flocki og trúarbrögdum, en sem hast hafdi Gamalíel til Frædara. Med frávita ákéfd leitadist þessi úngi Gydíngur vid, ad uppræta kristinudóminn, med því grimmilega ad ofsækja alla hans áhángendur. En þared þessir, eptir þad Stephán var myrdtur, ad miklu leiti tvístrudust og færdu

þannig þann kristna lærdóm med sér jafnvel út af Gydíngalandi, áformadi Saul líka erlendis, ad strída gégn framgángi hans. Hann vard því af Rádinu útbúinn med þeim myndugleika, ad taka alla þá Gydínga til fánga, sem játtu Jesú trúarbrøgdum og ferdadist Saul fyrst til Sýrlands, en á veginum þángad, geisladi hastarlega ljós frá himni umhverfis hann og heyrdi hann undireins rødd, sem spurdi: Saul! því ofsækir þú mig? „Herra! hverr ertú?" — frétti Saul, daudhræddur og hníginn til jardar — „Eg er Jesús" — ansadi røddin aptur — „hvern þú ofsækir; hardt mun þér reynast, ad spyrna mót broddunum" (þad er: ad strída gégn því, sem Gud vill vera láta). Þessi vitran lauk augunum upp á Saul, svo hann þeckti villu sína, lét því kénna sér kristna trú og sídan skíra sig, var hann líka upp frá þeim tíma einhverr hinn ákafasti og heppnasti kristinndóms bodari. Á þremur ferdum um Sýrland, alla minni Asíu, Makedoníu og Grickland, prédikadi hann Gudspjøllin og stadfesti lærdóminn med kraptaverkum; en allstadar mættu

honum mótspyrnur og hördustu ofsóknir, einkum af hans egin þjód Gydíngum. Þeir markverdustu og fyrstu kristnu Safnadir, á medal heidíngja, urdu af Pauli stiptadir — því þessu nafni lét hann sig skíra, sem kristinn. — Um nætur vann hann ad handverki sínu, svo ad hann, án þess ad vera uppá adra kominn, fengi kénnt Krists lærdóm á daginn. Einardlega forsvaradi hann rétt heidíngja, sem vid kristni tóku, ad þeir fríir væru frá uppfyllíngu Mósis Sida-logmáls. Af þessari orsök einkum hötudu Gydíngar Paul svo mjøg, ad þeir, hér um 60 árum eptir Krists burd, hofdu nærstum rádid honum bana í Jerúsalem, fyrst í upphlaupi og sídan vid svikfamt launmord. Sá ágjarni rómverski Landshofdíngi Felix, lét Paul gista fángelsi hjá sér, í von um, ad þeir kristnu mundu kaupa lausn hans; en af eptirmanni Felixar, ad nafni Festus, vard Paull þar á móti, ad bón hans, sendur til Róma-borgar til ad lída dóm þar, því hann var fæddur rómverskur borgari. Hann vard og ad nockrum tíma lidnum í raun og veru fríkénndur, en þar eptir birjadi hañ

sína 4du ferd; 66 árum eptir Krists burd vard hann, ásamt Pétri Postula, tekinn af lífi í Rómaborg, á þeirri miklu ofsókna tíd gégn kristnum, þegar Neró Kejsari sat ad voldum.

## 22. Ritgjordir Nýa Testamentisins.

Nýa Testamentid nefnum vér Safn af þeim heilögu Ritum, í hverjum Jesú og hans Postula líferni og kénníngar eru oss auglýstar. Þau fyrstu Rit af Safni þessu, eru þau 4 Gudspjøll (þad er: gledifregnir), sem innihalda frásogu um Jesú líferni og kénníngar. Eru þau ritud af Matthæusi Postula, af Marcúsi Postula, samferda manni Péturs, af Lúkasi Postula, fylgjara Pauls og Jóhannesi Postula, sem án efa lifdi lengst allra Postulanna og vard hér um bil 100 ædur; hefir hann því á lífi verid, þegar spádómur Jesú um Jerúsalems eydileggíngu framkom, sem skédi 70 árum eptir Krists burd. Þessu næst koma Postulanna Gjørníngar, skrásettir af

Lúkasi: 13 Sendibréf Pauls til enn kristnu Söfnuda og einstakra kristinna, nefnilega: 1 til Rómverja; 2 til Korinthu manna; 1 til innbúanna í landsplátsinu Galatíu í minni Asíu; 1 til Ephesus Stadar mañа; 1 til Philippi borgar maña; 1 til Kólóssu Stadar-búa; 1 til Thessaloníku bæar-maña; 2 til Tímótheusar; 1 til Títusar og 1 til Phílemons Lærisveina hans; bréfid til eña Hebreska vitum vér ecki fullvíst, hvert ritad er af Pauli. Þar eptir kémur 1 bréf Jakobs Postula, 2 Péturs og 1 Júdasar, hvers hofundur þó er ecki öldúngis víst. Safnid lyktar med zur bréfum og dikti nóckrum, sem nefnist Opinberanir, skráсettar af Jóhannesi Postula, í hverjum sá helgi Rithofundur, ad gamalla Spámanna venju, lýsir fyrir oss Sjón nockurri, sem fyrir hann hafdi borid.



# Heilrædi
## Olafs Jónssonar
### Prests til Sanda í Dýrafirdi,
### frá 1596 til 1627.

Mest vitir, en mjeg fátt segir.
Margt heyrandi, um þad þegir.
Hjálpa þeim í háska eygir.
Hefnd og úrskurd lengi deigir.
Vjelum sízt í vinskap smeygir.
Vid þér hollann þig ei reigir.
Ljúfur minna manni hnegir.
Minna lýtir ei né svejir.
Abla vel, en faung ei feygir.
Falslaust gjaldir og útvégir.

Metnast ei þó mikid egir.
Missir engann lengi þreyir.
Annars góz ógjarna leigir.
Gódfús sért þeim luckan beygir.
Ómaklegann aldrei streigir.
Ørleg, kíf og róg ei hejir.
Varast kapp, þó vinna megir.
Vík frá þeim, til synda teygir.
Mód og ágirnd frá þér fleygir.
Fridgjarn, rétt-trúadur deyir.



# Listi

yfir ennar konúngl. íslendsku Vísinda Stiptunar Forlags-bækur, sem eru til kaups bædi vid Prentverkid í Videy og hjá núverauda Stiptunariñar bókfala Hra. Gudmundi Péturssyni í Reykjavík, fyrir vidsett verd.

---

Anonyms Midvikudaga Föstu-prédikanir, einslakar 38 rbß. N. V., en til sambindingar vid Stúrmshugv. 2ad B. 26 rbß.

Arngrímssonar (B. Prests) Gardyrkju-frædi, 20 rbß.

—— Barnagull, eda Stöfunar- og Lestrarqver, 24 rbß.

Balles (N. E. Biskups) Biblíu-Lestrar 1ti P. 1 rbd., innb. 1 rbd. 32 rbß.

Basthólms (Ch. Dr.) Höfudlærdóma Sidari P. 64 rbß. innb. 86 rbß.

Campes Sida-lærdómur, 30 rbß iñb. 45 rbß.

—— Sálar-frædi 30 rbß. innb. 43 rbß.

Finnssonar (H. Dr. Biskups) Qvöldvökur sídari P. innb. 1 rbd.

Jallettis Kénnslubók í Sagnafrædi, 26 rbß. innb. 37 rbß.

Handbók Presta, 1 rbd., á Póstpp. 1 rbd. 32 rbß.

Herslebs (S. B. Professors) Stutt Agrip af Biblíu Frásögnum handa Unglingum, 32 rbß. í Silfri, eda 40 rbß. N. V.

Lærdómsbók í evangelisk-kristilegum trúarbrøgdum, Kaupmannah. 1815, innb: 64 rbß.

Løgþingis-bækur 1799, 29 rbß. 1800, 22 rbß.

Messusaungs og Psálmabók, 1 rbd. 48 rbß.

Péturssonar (H. Prests) Passíu-Psálmar 56 rbß.

norra Sturlusonar Norvegs Konúnga Søgur fyrsta Hefti 51 rbß.

—— Annad Hefti 51 rbß.

Stafrofs- og Fræda-qver, 16 rbß.

Stephensens (M. Dr. Jur.) Eptirmæli 18du Aldar 1 rbd. 13 rbß.

Stúrms (Ch. Ch.) Andlegu Hugv. 1ta B. 1 rbd. 48 rbß, 2ad B. 1 rbd. 32 rbß., og 3ja B. 80 rbß.

Tídindi 2árs B. 1ta Deild 42 rbß.
—— —— 2ur —— 1 rbd. 13 rbß.
—— 3ja B. 1ta —— 42 rbß.
—— —— 2ur —— 38 rbß.

Vikú-Psálmar og Bænir 28 rbß.

